# DACTYLISMUS
# ECCLESIASTICUS

edur

# Fingra-Rím,

vidvíkjandi

## Kyrkju-Arsins Tímum.

Hvört, ad afdregnum þeim rómversku tötrum gamla stíls, hefir sæmiligan íslendskan búning fengid, lagadan eptir tímatali hinu nýa.

---

Fylgir og med

**ný adferd**

ad finna

## íslendsk Misseraskipti.

---

(Obreytt eptir útgáfunni frá 1739.)

---

Kaupmannahöfn.
Útgefid af P. Jónssyni; prentad hjá S. L. Möller.
1838.

Þegar
Veledla, Velæruverdugur og Hálærdur
Biskup yfir Skálholts Stifti

# M. Jón Arnason

lét þá ágætu frikonst Fingra-Rímid
á þryck útgánga

var eptirskrifad í undirgefni tilsett
af
C. J. S.

---

Fornaldar (fyrn held eg)
fleins runnar eins kunnu
kænt þreyta ment mæta,
(margt svinnir þarft vinna):
um fjall hauka fullvakrir
fundu tíd og stund lýdir;
tídt klókir traudt skeika
tíma'- á hnúum -rím búa.

Konst dýra finnst farin,
    flýr sómans hýr blómi,
listþarfir ljóst hverfa,
    lagillir, hag spilla;
án bókar sjón sækir
    saunblindast mannkinda;
brá syrgir mýmargra
    mein téda, kvein' medur.

Sút réni, sit vinur!
    sjá vitsku þá Biskup
Meistari víst voru
    vis Jón á Is: fróni
hér býdur hýr þjódu;
    hann lista mann fyrsti
á þryck lédi þeck frædi;
    þraut leid svo hlaut greidast.

Artími hvør heima
    hægt stendur, þægt kendi;
nýr máni nær skíni;
    ná fridum hátídum;

þar vísur meir mesur
    má hinna þá finna;
búskap ei hjá hleypir,
    hans gættu lands hættir.

Um drengir fimm fingur
    fá nett að sjá þetta,
snilldbetri enn öld ytra,
    í svip er því gripið.
Sæl hrínga sól únga,
    sett á lidi rétt midar
rím; ordin sim furdu,
    frú vísa sú prísast.

Stord Jsa styrð, blásin,
    stá medan má fredin
bör korda hver hardur
    og hlöck tvinna fröck minnist
þeck blida þöck greida,
    þá stund er fá mundu,
þeim rédi rím bjóda:
    rádsvinnur nád finni!

---

In

## Dactylismum Ecclesiasticum

Viri

Summe venerandi et Doctissimi,

# Dn. Mag. Jonæ Arnæi,

Diœceseos Schalholtinæ Episcopi

vigilantissimi,

Incultos hosce Musarum fœtus

observantiæ ergo apposuit

*J. A.*

---

Tempori dignum statuas honorem,
Singulos soles numeres, oportet,
Hosce distinguas operiqve certo
sedulus omnes.

Hora nam præsens bene collocata
Non modo hanc vitæ seriem caducæ
Ordinat pulcre, sed et in perenne
proderit ævum.

Cura nos princeps jubet, ut sacratis
Temporis partes studiis dicemus;
Muneris qvod fit reliqvum suoqve
Tempore agatur.

Qvanta curavit pius hos in usus
Publice scriptis tibi, Gens nivosos
Qvæ colis tractus, tuus, ecce, Præsul
Dignus honore!

Grata age assurgas meritis Verendi
Præsulis, qvin et pietate summâ
Accipe hæc, JONAS tibi qvæ MAGISTER
Arte ministrat.

Sudor illius dedit, ecce! luci
Scripta, qvæ monstrant aditus Olympi
Dein qvibus ludus viget, atqve doctæ,
Palladis artes:

Huncce postremo tibi Dactylismum
Sistit, ut longum penetrale pandat
Temporis, pacto faciliqve possis
Limen inire.

Cernis hunc calles aperire Phœbi,
Cernis hunc palmis numerum dierum
Prodocere omnem, variosqve motus
Oraqve Phœbes.

Hinc suo cuivis operi admovere
Seculo palmas bene discis. AUCTOR
Floreat longum, subeatqve tecta
Serus Olympi.





# Lectori Salutem.

Það er gamalt mál vor á medal hér í landi

Blindur er bóklaus madur.

Fyrir mann bóklausan meinast í þessum ordskvid sá, er eckert skynbragd hefir á letri edur bókstøfum; hinn og lika, er lesa kann ad vísu, en getur valla nockud af sínu eigin brjósti framfært ødrum til nytsemdar, hlýtur því jafnan af bókinni ad hánga og má hennar ecki, heldurenn Icarus vængjanna, án vera, skuli hann þad nockud tala og kenna, sem mønnum sé til uppbyggíngar. Bádir þessir mega makliga blindir kallast: sá eini þess vegna, ad hann veit ecki, framar enn sjónlaus madur, ad gjøra grein á því, sem á bókum er teiknad; hinn þar fyrir, ad hans hugskots augu eru, ad segja, blind utan bókar, í þeim mál=

um sem mikid um vardar, og kann aungvu, nema fyrir útvortis medøl, í uppfrædíngar eyrindum til vegar ad koma; er svo deginum ljósara, ad ádur framfært spakmæli er fullt sanninda, og á vissum røkum byggt. En þar hjá er: þess ad gæta, ad líka sem flest eru fornmælin sønn, svo hefir og hvør ein regla optast sitt fortak og Exception; kemur þad og einnin fram á þessu máltæki, sem nú var undir kvørn tekid, ef vér rennum auga til þeirra manna, sem hafa þá ypparligu konst Dactylismum vel numid; því í brúkun og kennslu þeirrar mentar þarf þeim eckert ad skjátla, og ecki þurfa þeir neinum brest undirorpnir ad vera, þótt ecki sé bókin vid høndina, eda geti litid eda ecki neitt lesid í þeim frædum, sem fyrir sjónir koma, ef þeir ad eins vita ad þeckja einn staf frá ødrum, og eina tølu frá annari, mótlíka og sitt eigid búmerki frá annara signeta myndum.

Þeirra eigin brjóst og fíngur, sem þeir bera jafnan med sér, og kunna ecki heldurenn sjálfum sér ad gleyma, er þeim altíd fullskír Cynosura edur leidarvísir, til ad útreikna á

hverri stundu þeir vilja, nóttu edur degi, myrkri edur ljósi, hvar sem þeir eru staddir, kirkjuársins tídir, lángtum svarara enn hinn ferdugasti reikníngsmeistari, og þad med svo mikilli art og snidugleika, ad sá mætti undra sig þar yfir sem ecki hefdi listina ádur numid.

Pad er ángur ad vita ad fíngraríms-konstin er mestan part útdaud hér á landi, sem þó var í mínu úngdæmi almenniliga ydkud og um hønd høfd: margir ólærdir menn og kvinnur gátu í einum svip útreiknad á fíngrunum bædi túngl-kveikíngar og hátídakomur; geck þó svoddan lærdómur hjá uppvaxandi fólki ecki af fyrir utan stóran-ørdugleika, því øll subsidia, allar reglur, øll vers og samhendur sem konstin útheimti, voru kennd og numin í rómversku máli, eins af þeim sem ecki skildu eitt ord í Latínu. Messudagana fundu þeir, med þeim styrdu og bøguligu mánada-vísum: Cisio, Janus, Epi, etc.; Túnglkomurnar med þessum samandregnu tølu-ordum: Ternus, Uden, Nod, Octo, Sed, Qvinqve, Tred, Ambo, Decem, Doc, Septem, Qvind, Qvater, Dud,

Jota, Novem, Sept, VI. Qvard. Item adkvædunum:

Syl, le, in, ni, qve, num, jo, ja,
Bart, Ma, Din qvoqve, li, de.

hvør, teiknud med stærri støfum, stódu í sérhvørs mánadar vísu, til ad minna á hvar byrja skyldi ad telja til túngls útsprúngu í þeim sem eptir kom, (úr hverri torveldni jeg hefi gjørt sléttan og greidan veg).

Túngløld og Sólarøld meina eg þeir hafi fundid einasta fyrir gløggva adgætni þeirra 19 og 28 ára, sem þeir vissu ad hvør Cyclus fyrir sig hafdi inni ad halda; svo þegar sá hríngur var kominn á enda, hafa þeir byrjad øldina aptur ad nýu; því sú adferd, ad finna ár túnglaldar og sólaraldar med tøblum og reiknings-list, ætla eg ecki hafi verid hér í brúki fyrst framan af, og lengi frameptir øldunum, heldur komist inn smámsaman, eptir því sem Scientia Literarum aukist hefir med undirgángi þávadómsins og frekari brúkun prentverksins í tíd Gudbrands biskups, því hann hefir fyrstur hjá oss látid bók-rímid á prent útgánga.

Upphafs-stafi hvers mánadar hafa þeir fundid med eptirfylgjandi versum:

Jan petit A. De Fe, Mar. Ap G. Ma B.
Jun dat E. Jul G.
Aug C. Sept F. Oct A. No D capit, Eque
December.

og svoddan ýmislig vers og latínskar vísur hafa þeir hér á landi, sem annarstadar í kristindóminum, brúkad, til ad minna á eitt og annad kyrkju-árs reikníngnum vidvíkjandi, hvørjar Prófessor Qvensel, í sínum Computo Cyclico-Ecclesiastico, og medfylgjandi rómversku Calendario, ásamt mørgum ødrum fleirum nafnfrægum rím-meisturum, vída allegerar. Sunnudags bókstafinn hafa þeir til forna, í sínum Computo Digitali, uppgøtvad med þéssu alkunna versi: Grandia Frendet Eqvus etc. En fyrir þá grein, ad þess brúkun var mjøg adgætsluverd og villusøm, hafa þeir útvegad sér eina adra barbariska þulu, (hvar eda hvadan, má Oedipus geta uppá) sem sýnir gjørlá bædi hlaupár og almenn ár med sínum sunnudags bókstøfum, svo ei þarf um ad villast, út alla sólarøld

hina gømlu, ſvo hljóðandi: (Sit honor auribus.)

Glos } Esse, Dei, Cluens.
Flos

Babb } Centi, Furenti, Et.
Abb

Dausa } Bedmon, Atri, Genus.
Causa

Fexemi } Dium, Cue, Belue.
Exemi

Adius } Furet, Et, Discordia.
Gladius

Cella } Ast, Geri, Fert.
Bella

Emina } Cliffium, Bellantibus, Astans.
Domina

Eptir anleidíngu þeſsarar andøguligu Sartaginis hef eg ſtiptad eitt annad medal ſkiljanligra og minninu hagkvæmara, til ad finna ſunnudags bókſtaf árlega, ſem eru 7 ſtef, med eins mørgum ſamhendum echoicis, er ſnúaſt í kríng med hvørri 28 ára øldu, og meiga brúkaſt, ad hennar ári fundnu, in perpetuum.

Med ſvoddan hætti, ſem hingad til hefir

týnt verid, gátu formenn vorir fundid túngl-komur, hátídir, mesśudaga og annad fleira utanbókar, einasta á fíngrum sínum, og þad geck þeim svo fljótt og greiduglega, á medan gamli still var í brúki, ad einn forfarinn reikníngs-meistari, sem altíd má brúka útvortis medøl til ad framfylgja sinni konst, skal því valla trúad geta, á medan hann gefur ecki gaum ad þeirri Methodo sem jeg brúka í mínum íslendska Dactylismo. En sem sá nýi still var af Kóngl. Majst. svo vel hér sem annarstadar í Hans Majsts. ríkjum og løndum uppá bodinn, Ao. 1700, fèll lønd-um vorum allur ketill í eld, svo færstir hafa sídan getad á fíngrunum uppfundid Neo-menias og hátída komurnar. Messudagana kunna margir enn þá ad uppfinna, eptir þeim íslendsku vísum, sem þar til hafa í stadin fyrir þær látínsku, hvørra ádur er getid, gjørd-ar verid.

Jeg sagdi fyrir skømmu, ad þar væri yfir ad klaga, ad íslendskir hefdu mikinn part tap-ad sinni fíngra-ríms konst, sídan nýi still kom inní landid, því þeirra gømlu reglur vildu slá

þeim þá mikid feil; en þad má þó sýnast meir til ords takandi, ad þeir hálærdu Chronologiæ Professores vid Academíin í framandi löndum sýnast hafa lagt þessa Speciem suæ Professionis, Dactylismum, fyrir ódal, í þeim greinum, sem mest umvardar, til dæmis: ad finna túngls útsprúngur og hátída-komur á hverju ári; því aungvir af þeim sem jeg séd hefi, sýna adferdina, hvørnin menn skulu bera sig ad í þessum tveimur fíngra-rímsins póstum, sem eru þó annars kjarninn úr øllum Computo Ecclesiastico, heldur tradera ad eins eitt og annad sem þénar þessum høfudstyckjum til undirbúníngs, svo sem er, ad finna Pacta, túngl-øld, sólar-øld, hlaup-ár, sunnudags bókstaf, Dies exemptiles, og annad þvíumlíkt.

Til sanninda hér um skrifar Schottus, (sem annars hefir, þad eg veit, gjørt mest ad verkum í því ad sýna, med uppdregnum høndum, modum computandi per digitos kyrkju-ársins tíma), þegar hann er kominn ad høfudstyckinu, ad finna páska, á þennan hátt:

Tribus, inqvit, modis Pascha, cum festis dependentibus, inveniri potest: Primo ex Calendario. Secundo per Tabulam. Tertio per digitorum Articulos.

Duos primos tantum tradam, omisso Tertio, qvoniam intricatissimus est, et innumeris pæne cautelis et limitationibus indiget. Hæc Gaspar Schottus.

En ad finna Novilunia med sømu konst, þarum sést ecki hjá hønum púnktur eda prik.

Svo hafa og hinir adrir: Clavius, Gulden, Schønbornius, Qvensel, og eunþá fleiri, sem mér hafa fyrir augu komid, gengid þegjandi fram hjá þessum lærdómi: ad finna túngl-komur og Festa Mobilia á fíngrunum, hvaraf jeg innbyrla mér, ad Computus Digitalis í þeim póstum muni hjá þeim hálærdu vera undir lok lidinn; því ecki kann eg ad láta mér það til hugar koma, ad vorir formenn hér á landi hafi fundid uppá þessa frikonst, vidvíkjandi tveimur þeim helstu er eg strax um gat, fíngra-rímsins gagnsemdum, einkum þar Gaspar Schottus Org. Mathem. pag. m. 354 gefur til kynna, ad Pompei-

us Limpius hafi skrifað fjórar snilljlegar bækur um Dactylismum; og sá gamli Computus Ecclesiasticus, sem vér höfum á Íslendsku, að nafni Blanda, í rit færður, eptir því sem sannast ráða má, eptir 1300, hérum á miðri fjórtándu öld, eður nockru síðar, getur ecki neitt um þá aðferð, að finna ársins tíðir á fíngrunum. En hvernin sem þessu er varið, þá er þó téð Methodus mikið hagkvæm, styttri og greiðari enn hinar aðrar sem almennilega eru í brúki.

Rím-töblur sem Computistæ eru vanir að præsentera, vulgo, eru næsta auðveldar að gánga eptir; en þeir heyra þeim helst til, sem ecki kunna að synda nema með kork, eður cortice. Aulœdus sit, qví Citharœdus esse neqvit. Það reiknast ecki neitt mannadóms stycki að verða altíð að sækja vitið í vasann þegar hófa skal, því þá finnur það stað, sem menn plaga að segja: Totum in sacco, nihil in corde. Hér þvert á mót er sú venja losleg, er flestir rím-meistarar brúka, að uppgötva helgar og rúm-helgar tíðir með reiknings list, en það er ecki öllum gefið

ad gánga í hennar ljósi, nec omnes possunt olere ungventa exotica.

Færstir af fólki voru kunna ad höndla med Arithmeticam, en þurfa þó ecki sídur enn adrir kristnir menn ad vita af helgum tídum; eins líka túnglaskiptum, sokum ýmislegra sýslana í þeirra búskapar háttum; og þó þeir hefdu nú artem calculandi allir vel numid, þá væri hún þeim ecki hentugri enn þeirra eigin fíngur, nema sídur sé, því lángt gengur Dactylismus yfir adra uppfundna vegi til ad þeckja nidurradan kyrkju-ársins í tíma, daga, vikur og mánudi, ítem hræranlegar og óhræranlegar hátídir, Guds börnum til góda, svo þau kunni, á hentugum stad og tíma, hans dýrkun og þjónustu skickanlega ad rækja: bædi er fíngra-listin léttari ad nema, greidir verkid fljótara, og er fleirum communicabilis, enn Arithmetica, sem útheimtir altíd nockur Utensilia, er þar med opt lángsöm, torveld, og kann ecki utan fáum, vegna vandhæfis, ad meddeilast. Og ad lesarinn megi sanna þetta satt ad vera, sem eg framber, vísa eg hönum til seinna parts þessa Dactylismi,

sem höndlar um íslendsk misséra-skipti, því þar hefi eg sýnt adferdina ad finna þau árlega med tvennu móti: fyrst arithmetice og sídan currendo per articulos; ecki þad eg meini, ad almúginn hér á landi kunni ad uppfinna tídirnar med svoddan móti, heldur ad lesarinn komist ad raun þar um, ad sá vegur er lángtum beinari og sléttari til ad ná markinu, sem eg set Publico fyrir sjónir, enn sá, er útheimtir mörg arithmetisk heilabrot, sem ecki eru heiglum hent; þad sær hann og svo vel skilid, þegar hann ber saman mína Præscription, ad finna Intervallum hid minna og stærra, vid þá sem þeir Cathólisku og Prófessor Qvensel hafa mönnum eptirlátid. Jeg vil ecki tala um misమun þeirra bodorda sem gefast á bádar sídur til ad finna túnglkomur og hátídir.

Ecki heldur útheimtir mín Methodus svo mikinn Apparatum edur Cumulum Observationum sem bók-rímin almennilega, en nær þó aungvu sídur höfudinni sem hvörutveggju keppast til.

Í Pakta-reikníngnum þarftu ecki, minn vin, hér ad mæda þig, jafnvel þó Gyllinitals

reglurnar séu á hønum grundvalladar; því eptir þeim Præceptis, sem veledla og hálærdur Petrus Horrebow, Mathematum Superiorum í þeim konúnglega Residentsstad Kaupmannahøfn Professor Celeberrimus, hefir gefid í sínum Computo Ecclesiastico, ad finna túngls útsprúngur med Epactis í hverjum mánudi, hefi eg gengid í þessum mínum Dactylismo.

Ecki heldur þarftu ad útreikna hér Dies exemptiles, ecki Terminum Paschalem, ecki ad bera kvída fyrir Bissextis, sem rugla almennu árin, ecki ad grufla upp Sunnudags bókstaf gamla stíls, til ad fá þann nýa í ljós leiddan, eins og Jesúítarnir Schottus og hans brædur fyrirskrifa, því allt hvad Sunnudags bókstaffins fundi vidvíkur, svo vel á hlaupári sem á almennu ári, þad hefir þú innra í þínu brjósti, þegar þú ert búinn ad læra þau stef, med sínum samhendum, er þar til þéna, og kannt því í einum svip hann ad þeckja, med tilstyrk fíngra þinna; og þetta Artificium expiscandi literam Dominicalem árlega í snøggvu bragdi, kann ad vara svo lengi sem

heimurinn stendur, en túnglkomur og hátídir ecki leingur enn út þetta og eptirkomandi Seculum, allt til þess Datum skrifast 1900; ef Gud vill svo vera láta, úr því kann enginn ad rétta sig eptir þeim Aureo Numero, sem stendur í rímstocknum. En fíngra-rímid sjálft má þó brúkast leingur med einum athuga, hvar Túngls-terminid skal fyrst á fíngra-lidunum nidur setjast, og jafnvel um þrjú næstu Secula eptir 1900.

En menn kunna ecki nærri ad geta, hvernin þeir mektugu pótentatar, sem þann tíma verda undir Guds forsjón í Kristindóminum ríkjandi, munu, fyrir tilvísan sinna hávísu stjørnu-meistara, Páska-reiknínginum þá nidurskicka, med því Epactarum æqvatio þeirra Catholisku er svo vída hjá Protestantibus illa ræmd.

Jeg flýti mér frá þessum leyndarmálum, sem mér eru ofhá, til þess er eg vildi þér, minn gunstigi lesari! gefa til kynna, med hverjum hætti þú skulir bera þig ad, ad læra Dactylismum uppá þína 10 fíngur, svo hans brúkun verdi þér altøm, líka sem annad handverk.

Þú skalt lesa rímid fyrst ígegnum med

gætni, einusinni edur tvisvar, svo þú fáir í huga þínum fest nockurskonar Ideam, edur afrissníng þess, sem í því er helzt merkjandi; síðan skalt þú reyna til, að finna Gyllinitalið, og það fyrir styrk þeirrar uppdregnu handar Cap. II. Art. I. á meðan þú ert óvanur við, og bera þig að festa vel í minni, hvar tölurnar, svo vel þær minni sem hinar stærri, hafa sín sæti hver fyrir sig, á hvað Series Digitorum et Articulorum kann auðveldlega þig að minna. Þegar þetta er nú orðið þér altamt, skalt þú leggja frá þér þá uppdregnu hönd, og finna svo Gyllinitalið utanbókar, af þinni eigin hendi og brjósti, svo þá hjálpast að þetta þrennt: skilníngurinn, minnið og höndin, í því að hitta túnglöldina, fyrst á nærverandi Seculo, og síðan þeim sem eptir koma; og skaltu brúka sömu aðferð sem börn, þegar þau eru að læra Lectiu sína: þau lesa það í huganum, sem minnið grípur, og líta svo jafnóðum á bókina, til að vita hvört þau hafa rétt munað. Eins skaltu prófa sjálfs þíns minni og nám með skoðun handarinnar, hvört þú hafir Gyllinitalið rétt fundið á því

og því ári, og ef ecki, þá leidréttir höndin þad, því þad skalt þú vita, ad ecki er sú uppmálada hönd þessvegna tilsett, ad þú skulir alla æfi þurfa hennar naudsynlega vid, heldur ad hún vísi þér einasta veginn á medan þú ert ad læra, og þú verdir sjálffær þar eptir.

Þad sem eg hefi sagt um þessa hönd, ad finna Aureum Numerum, þad sama á ad skiljast um þær sem eptir koma, svo og allt hvad í þessu rími er skrifad og uppteiknad, ad þad á ecki ad brúkast nema á medan konstin er lærd, sem kallast Fíngra-Rím, fyrir þá grein, ad hún á ad hafast um hönd utanbókar med fíngranna tilstyrk.

Þegar þú ert nú ordinn peritus í því ad finna Gyllinitalid án lángrar umþeinkíngar, skalt þú gefa þig til ad læra Gyllinitals ordin fyrir utan reiþrennandi, og þar eptir ad telja á fíngrunum til Túngls-útsprúngunnar, eptir þeirri undirvísun, sem þar um er gjörd í lesríminu Cap. II. Art. 2, 3, 4, og ecki gánga vídar áfram, fyrrenn sú Lectia er vel numin, og þú hefir æft sjálfan þig med adskiljanlegum eptirdæmum bædi á þessu og eptirkomandi Se-

culo, og altíd hafa rímstockinn (hvar Gillinitalid stendur skrifad í sérhvørjum mánudi) fyrir mælisnúru, svo þú kunnir af því ad vita hvørt túngls kveikíngin sé rétt fundin, hver ad kemst lángtum nær almanokunum enn sú sem Pactarnir tilvísa í því litla bók-rími, er eg gjørdi nockrum árum eptir þad nýi still kom inní landid, og þryckt var á Hólum 1707.

En ecki máttu láta þér þad míslíka, (svo sem mørgum af løndum vorum hefir híngad til verid hætt vid) þó stundum finnast megi ad dags munur verdi á millum almanakanna og Dactylismi; því fíngra-rímid er innréttad eptir midhlaupi sólar og túngls, en Prognostica Annorum eptir því rétta hlaupi, og þad med Calculo exqvisitissimo, edur smákvæmasta reikníngi uppá stundir og mínútur; og er þad hér vel merkjandi, þótt þeir hávísu stjørnumeistarar brúki svo subtil reikníng, samt hitta misgaungur sólar og túngls hjá þeim ecki altíd uppá sama tímans púnkt á hvørjum 19 ára fresti, heldur munar þad stundum um heilan dag, og jafnvel meira, hvarum þau almanøk vitni bera sem eg í høndum hefi. Nú líka

sem enginn skyldi þenkja, að stjörnu-meistarar fari villt, þó þessi verði mismunur Neomeniarum uppá tíman á vissum árum túnglaldar; svo er það ecki heldur að kenna misreikníngi, þótt ecki beri rímninu altíð saman við almanökin. Sjálfir stjörnu-meistararnir giöra og svo Calendaria, hvörjum ecki kemur heldur saman við þeirra eigin Prognostica; eru þó hvörutveggju keiprétt. Og svo að þú, minn vin! fáir heldur skilið hvar af svoddan orsakast, þá er það grundvöllur málsins, að sólarhríngsins midpúnktur er ecki hinn sami og dýrahríngsins, edur jarðarinnar, heldur eru þeir lángt nockuð hvör frá öðrum, á línu þeirri sem liggur frá suðri til norðurs; svo ef séð yrði til sólarinnar frá midpúnkti hennar hríngs og undir eins frá jarðarinnar midpúnkti, þá bæri hana ei við himin í sama stað frá báðum þessum midpúnktum, heldur sýndist hún frá jarðarinnar midpúnkti, sem er sunnar, að vera komin lengra edur skemra áfram, heldur enn ef einhvör liti hana frá midpúnkti þess hríngs, sem hún sjálf giörir. Nú þegar hlaup sólar og túngls er komið á þann veg, að

þeirra midpúnktar standast á vid dýrahríngsins midpúnkt, þá verdur kveikíng edur fyllíng túnglsins, hjá þeim sem búa á jardar-hnettinum, í sínu rétta standi. Og þetta er þad vandaverk, sem almanaks-meistarinn hefir á hendi, ad útreikna þann tímans púnkt, tvisvarsinnum í hvörjum mánudi, á hvörjum svoddan skedur. En sá sem rímid stiptar, lætur sér nægja ad sýna þad augnablik, á hvörjum midpúnktar sólar og túngls standast á ad eins, þótt jardarinnar midpúnktur verdi ecki í sömu línu, og þá reiknast kveikíng og fyllíng túnglsins og svo rétt, í tilliti til þess sem kynni ad vera staddur í sólar-hríngsins midpúnkt, og midadi þadan bædi þessi stórljós vid himinsins festíngu. Héraf er audsært, ad ecki kemur þad til af villu edur misreikníngi fyrir þeim sem rímin gjöra, þótt ei beri þeim altíd saman vid almanökin, þar sitt augnamid hafa hvörir: sá eini siktar uppá þann gáng sólar og túngls, sem altíd er jafn vid sig; en hinn annar uppá þann ójafna, hvör stundum er hradari enn stundum, eptir því sem vegur þessara

tveggja pláneta liggur annadhvørt um nordur- edur sudur-baugana.

Þegar þú, minn vin! ert nú ordinn al-vanur í því ad finna Gyllinitalid utanbókar, og kannt í snøggvu bragdi, med þínum fíngra-reikníngi, ad segja á hvørjum degi nýid kveik-ist í sérhvørjum mánudi, út allan Cyclum Lunarem, þá skaltu taka þér fyrir hendur ad uppleita þá 28 ára øld nýa stíls, sem eg hefi, qvoad Terminum a qvo et ad qvem, inventerad; og er þad hægt ad gjøra, nær madur leggur 1 árlega vid fyrstu Tetracosie-teridis Centuriam, 5 vid adra, 9 vid þridju, og 13 vid hina fjórdu, kastar sídan í burt 28 svo opt sem verdur; þad sem afgengur er vetur sólar-aldar.

Sídan er mjøg audveldt ad finna Sunnu-dags-bókstafinn: ecki med þeim hætti, sem nockurn tíma hefir af Calendariographis ádur brúkadur verid, heldur nýu Artificio, svo medfærilegu, ad jafnvel einn leikmadur, sem ei er mjøg svo obesæ naris, kann vel med þad til rétta ad komast; og hafa vorir formenn hér í andi, med sinni dextra Sinisteritate, edur

snidugum andøguhætti, anleidíng þar til gefid, svo sem ádur er áminnst.

Jeg þykist sjá af Scriptis þeirra Katholiskú, ad þeim veitir ecki sem hægast ad sýna orbi literato greidan veg til ad finna Sunnudags-bókstaf nýa stíls, nema med Subtilitatibus Arithmeticis, af hvörjum flestir bændur hafa lítid ad segja. Per Tabulas, handa præcordiis albis, er þad létt ad gjøra, hvörjar laudatus Qvensel býdur ogsvo fram, med ødrum fleirum, jafnvel þó þær hinar somu hans nái ecki fram lengra enn nærverandi hundrad ára øld. En, gefum þetta eptir, menn vita ecki hvad lengi þarf á ad halda; hitt undrar mig stórum, ad þessir hálærdu menn láta ecki 28 ára øldina í tøblum sínum altíd hafa somu Sunnudags-bókstafi á einu Seculo eptir annad, eins og var í gamla stíl, virdist mér, ad svoddan gjøri fáfródum ecki allítin trafala, nær þeir skulu, exercitii gratia, leitast vid, in Annis remotis, ad finna hræranlegar hátídir. Þessvegna hef eg viljad kosta kapps um, ad þeirrar mædu skyldir þú, minn gunstugi lesari! mega án vera, ad þurfa

ad leita ad nýum Dominicalibus med nýrri Centuria, jafnvel þó umbreyting þeirra verdi á aldamótunum. Hentugra þótti mér, ad láta sólar-øldina þar skerdast, bædi í útgaungu og inngaungu, svo ad ein og hin sama regla brúkast mætti til ad finna Sunnudags-bókstafinn um aldur og æfi; því þetta er sú helzta gagnsemd Cycli Solaris, ad hann kennir ad finna á hvørju ári Literam Dominicalem, og rídur þar fyrir ecki stórt á því, hvar hann byrjast edur endar; þeir Katholísku gefa sig og litid þar um.

Hvad tøblunum vidvíkur, þá geta þær ecki altíd verid vid høndina, þegar á þarf ad halda, og eru einnin mel og forrotnan undirorpnar; verdur þér konstin þá meir til kinnroda enn virdíngar, nær þú, adspurdur um tídir ársins, getur aungvu svarad Tabularum inops. Nú med því þetta er hid vandasta í øllum Dactylismo, ad finna Sunnudags-bókstafinn af sólar-øldinni, á sérhvørju því ári sem er lángt í burtu, þá skyldir þú, gunstugi vin! æfa þig vel í þessum pósti, ádur enn þú fer ad rádast á høfudstyckid sjálft, nefnilega

ad finna páska, med ødrum hræranlegum há-
tídum; en þad verk hefi eg faciliterad med 7
strophis edur stefjum, og eins mørgum Eu-
rythmis gemellis í upphafi hvørrar fyrir sig;
hlýtur þú ad læra þessi stef ad ungves, og
nær þú hefir þad gjørt, kann þér ecki ad slá
feil um Sunnudags-bókstafinn, med því fimm
ord í sérhvørri stropha sýna med sínum literis
initialibus þá fimm Dominicales, sem hvør
Tetraeteris, ein eptir adra, útheimtir, og þad
in perpetuum, svo sem sjá má í þeirri 400
ára tøblu sem stendur bak vid Dactylismum,
ecki til þess, ad sá sem hefir fengid nockra
Disposition eda nasavit af Fíngra-Ríminu
skuli í henni altíd skygnast eptir tímum ársins,
því þá væri hún ecki annad enn efni til lat-
menksu og hirduleysis, og mætti eg þá fyrir
hennar smídi ydran taka; heldur er hún ein-
asta í þeirri meiníngu fyrirsett, ad einn vid-
vaníngur hafi hana svo sem fyrir normam
edur reglu ad prófa sjálfan sig, á medan hann
er ad læra, svo hann viti hvørt hann hefir
borid sig rétt ad eda ecki; vantar því ecki ann-
ad í þessu námi, enn ydkunina, á medan lær-

dómstíminn yfirsteudur, svo þú in computatione articulorum verdir forfarinn, nam Solus et Artifices qvi facit, usus erit; og þá lokfins mattu bjóda á hólm hvørjum þeim Logista, sem til vill verda, jafnvel peritissimo, ad hann reyni vid þig frækleik sinn í því ad finna túnglkomur og páska, eins vel á árum þeim sem eru remotiores, allt þar til Seculum decimum nonum er endad; jeg vil gefa þér hønd þar uppá, ad fyrr enn hann er búinn ad taka til pappírinn, blekid og pennann, hvørra verkfæra hann má ecki án vera, ef mentin skal gilda, þá kantu ad segja hønum, útaf þínu eigin brjósti og skodun handar þinnar, hvør dagur mánadar þad sé, sem eptir er spurt; en takist þér midur enn eg strax umgat, þá er þad ad kenna þinni eigin forsómun, hvar med þú gjørir listinni óvirdíng, ad þú kannt ecki þad med henni ad framkvæma, sem hún er annars til hæfileg.

Þegar þú hefir nú Dactylismum nockurn tíma ydkad, kantu vel ad muna hvørjum lid sérhvørt Gyllinital heyrir til, og fellur þá verkid enn léttara, því þá þarftu ecki framar

ad tefja þig med tølu lidanna; ſvo er þad og ſvo Compendium Operationis, ad þú feſtir þér í minni, ad Aprilis í hátída-reikníngìnum byrjaſt altíd á topp midfíngurs, en í miſsira-talinu á effſta lid víſifíngurs.

Þegar meſsurnar ſkal finna eptir víſun-um, þá ſkal-byrja talid á þeim lid víſifíngurs, hvørjum fyrſti dagur mánadar þeſs ſem meſs-una í ſér hefir, er tileinkadur.

Þetta Fíngra-Rím hef eg ad ſønnu ſaman-tekid handa almúga fólki hér í landi; en þad er og ſvo þar fyrir utan þeſs verdt, præſcine dixerim, ad ſtærri mønnum mætti þykja nytſemd í þad ad kunna; ecki ólíkt og þegar Athanaſius Kyrcherus og Gaſpar Schottus til-ætludu fordum, ad edalbornir furſta og greifa ſynir ſkyldu nema ſinn Computum Ecclesiasticum, edur kirkjuárs-reikníng. Vale.

Skálholti þ. 29 ágúſt 1738.

Jón Arnaſon.

**Nota.** Eptirfylgjandi Hemerologium edur Daga-Registur á ecki med réttu heima hjá Fingra-Rimi, heldur Bók-Rimi, en er hér sett einasta til þess, ad sá sem er ad læra Dactylismum

## JANUARIUS, Midsvetrar mánudur,

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 1 | A. | IX. | Ar, | |
| 2 | B. | | nýtt | |
| 3 | C. | XVII. | hóf | |
| 4 | D. | VI. | Ja- | |
| 5 | E. | | nus. | |
| 6 | F. | XIV. | Byrt- | Þrettándi |
| 7 | G. | III. | ist | Knútur |
| 8 | A. | | brátt | |
| 9 | B. | XI. | barn, | |
| 10 | C. | | sem | |
| 11 | D. | XIX. | tign- | |
| 12 | E. | VIII. | á | |
| 13 | F. | | heidn- | Geisladagur |
| 14 | G. | XVI. | ir | |
| 15 | A. | V. | hátt, | |
| 16 | B. | | med | |

kunni ad hafa þad svo sem fyrir réttar-snúru, vid hverja hann á ad bera sínar Operationes þegar hann er ad finna mefsurnar og Gyllinitalid á fíngrunum.

## hefir daga XXXI, túngl 30 nátta.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| 17 | C. | XIII. | An- | Antonius | |
| 18 | D. | II. | TO | | Fjórt, |
| 19 | E. | | ní- | | Pridj- |
| 20 | F. | X. | us | | i, |
| 21 | G. | | A- | Agnes Mey | Ell- |
| 22 | A. | XVIII. | gnes | Vincentius | eft, |
| 23 | B. | VII. | géck, | | Nít, |
| 24 | C. | | en | | Att- |
| 25 | D. | XV. | Pá- | Páls Mefsa | a, |
| 26 | E. | IV. | lus | | Sext, |
| 27 | F. | | Sjón | | Fimt- |
| 28 | G. | XII. | af | | i, |
| 29 | A. | I. | GUD- | | Þrett, |
| 30 | B. | | i | Bóthildur Drottníng | Ann- |
| 31 | C. | IX. | féck. | | ar, |

## FEBUARIUS, Föstugángs mánudur

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| 1 | D. | | Dýr | | Ti= |
| 2 | E. | XVII. | Ma= | Kyndil=Messa | und, |
| 3 | F. | VI. | ri= | | At, |
| 4 | G. | | a | Vertíd hefst | Sio= |
| 5 | A. | XIV. | hreins= | Agata | und, |
| 6 | B. | III. | ast | Dorothea | Fimt, |
| 7 | C. | | hér, | | Fiórd= |
| 8 | D. | XI. | hún | | i, |
| 9 | E. | | gat | | Tólf, |
| 10 | F. | XIX. | Je- | Scholastica | Fyrst= |
| 11 | G. | VIII. | sum | | a, |
| 12 | A. | | lik= | | Ni= |
| 13 | B. | XVI. | an | | u, |
| 14 | C. | V. | sér, | Valentius | Sept, |

hefir daga XXVIII, túngl 29 nátta.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| 15 | D. | | prýð= | | Sjött= |
| 16 | E. | XIII. | ir | | i. |
| 17 | F. | II. | stót | | |
| 18 | G. | | og | Mart. Lut. D. | |
| 19 | A. | X. | plant= | | |
| 20 | B. | | ar | | |
| 21 | C. | XVIII. | Vor, | | |
| 22 | D. | VII. | Pét= | Péturs=Messa | |
| 23 | E. | | ur: | | |
| 24 | F. | XV. | Mat= | Matthías=Messa | |
| 25 | G. | IV. | thí= | | |
| 26 | A. | | as | | |
| 27 | B. | XII. | HLAUT | | |
| 28 | C. | I. | kjer | | |

## MARTIUS, Jafndægra mánudur,

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 1 | D. | IX. | deyd- | |
| 2 | E. | | i | |
| 3 | F. | XVII. | Jo- | Jón Hóla Biskup |
| 4 | G. | VI. | nas | |
| 5 | A. | | Hól- | |
| 6 | B. | XIV. | a | |
| 7 | C. | III. | hyrd- | |
| 8 | D. | | ir, | |
| 9 | E. | XI. | heil- | |
| 10 | F. | | og | |
| 11 | G. | XIX. | Christn- | |
| 12 | A. | VIII. | i | |
| 13 | B. | | nafn | |
| 14 | C. | XVI. | hans | |
| 15 | D. | V. | vird- | |
| 16 | E. | | ir. | |

hefir daga XXXI, túngl 30 nátta.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| 17 | F. | XIII. | Dæg= | | |
| 18 | G. | II. | ur | | |
| 19 | A. | | hnif= | | |
| 20 | B. | X. | jøfn | | |
| 21 | C. | | Be= | Jafndægra | |
| 22 | D. | XVIII. | NE= | | Fjórt, |
| 23 | E. | VII. | dict | | Pridj= |
| 24 | F. | | ber, | | i, |
| 25 | G. | XV. | bod= | Maríu=M. á Lángaf. | Ell= |
| 26 | A. | IV. | an | | eft, |
| 27 | B. | | Mev= | | Nit, |
| 28 | C. | XII. | ar' | | Att= |
| 29 | D. | I. | SPT= | Beda Prestur | a, |
| 30 | E. | | ir | | Sext, |
| 31 | F. | IX. | fer | | Fimt= |

## APRILIS, Sumar-mánuður,

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| 1 | G. | | Sæf- | | i, |
| 2 | A. | XVII. | an | | Prett, |
| 3 | B. | VI. | ór | | Ann- |
| 4 | C. | | Am- | Ambrosius Biskup | ar, |
| 5 | D. | XIV. | bro- | | Tí- |
| 6 | E. | III. | si- | | und, |
| 7 | F. | | o. | | Aτ, |
| 8 | G. | XI. | A- | | Sjø- |
| 9 | A. | | pri- | | und, |
| 10 | B. | XIX. | lis | | Fimt, |
| 11 | C. | VIII. | Le- | Leó Biskup í Róm | Fiórd- |
| 12 | D. | | o- | | i, |
| 13 | E. | XVI. | ni | | Tólf, |
| 14 | F. | V. | tign | | Fyrst- |
| 15 | G. | | bjó, | | i, |

hefir daga XXX, túngl 29 nátta.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| 16 | A. | XIII. | Magn- | Magnús Eya Jarl | Ni- |
| 17 | B. | II. | ús | | u, |
| 18 | C. | | vard | | Sept, |
| 19 | D. | X. | Jarl, | | Sjott- |
| 20 | E. | | en | | i. |
| 21 | F. | XVIII. | Biß- | | |
| 22 | G. | VII. | up | | |
| 23 | A. | | Jón, | Hóla Biskup | |
| 24 | B. | XV. | var | | |
| 25 | C. | IV. | Mar- | Marcus Gudspjallamadur | |
| 26 | D. | | cus | | |
| 27 | E. | XII. | DRD | | |
| 28 | F. | I. | Guds | | |
| 29 | G. | | um | | |
| 30 | A. | IX. | frón | | |

## MAJUS, Fardaga mánaður,

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| 1 | B. | XVII. | Báð- | Tvegg. Postul. M. Phil. Jac. | |
| 2 | C. | VI. | ir | | |
| 3 | D. | | kross, | Kross-Messa | |
| 4 | E. | XIV. | féck | | |
| 5 | F. | III. | bál | | |
| 6 | G. | | Jón | Jóhanni Postula kastad í sjóðandi olíu kér | |
| 7 | A. | XI. | gist, | | |
| 8 | B. | | brá | | |
| 9 | C. | XIX. | Ma- | | |
| 10 | D. | VIII. | JUS | Elda Skild. | Fjórt, |
| 11 | E. | | ver- | | Prids- |
| 12 | F. | XVI. | tíð | Vertidar lok | í, |
| 13 | G. | V. | og | | Ell- |
| 14 | A. | | vist. | Vinnufólks skild. | eft, |
| 15 | B. | XIII. | Hall- | Hallvards-Messa | Nit, |
| 16 | C. | II. | vard- | | Att- |

hefir daga XXXI, túngl 30 nátta.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| 17 | D. | | ur | | a, |
| 18 | E. | X. | reynd= | | Sext, |
| 19 | F. | | i | | Fimt= |
| 20 | G. | XVIII. | hard= | | i, |
| 21 | A. | VII. | a | | Prett, |
| 22 | B. | | pín; | | Ann= |
| 23 | C. | XV. | heitt | | ar, |
| 24 | D. | IV. | med | | Ti= |
| 25 | E. | | Ur- | St. Urbanus | und, |
| 26 | F. | XII. | ba- | | At, |
| 27 | G. | I. | NO | | Sjo= |
| 28 | A. | | fum= | | und, |
| 29 | B. | IX. | ar= | | Fimt, |
| 30 | C. | | id | | Fjórd= |
| 31 | D. | XVII. | fkín. | | i, |

## JUNIUS, Nóttleysu mánudur,

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| 1 | E. | VI. | Eyk= | | Tólf, |
| 2 | F. | | ur | | Fyrst= |
| 3 | G. | XIV. | Ju- | | i, |
| 4 | A. | III. | ni- | | Ni= |
| 5 | B. | | us | | u, |
| 6 | C. | XI. | opt | | Sept, |
| 7 | D. | | gras; | | Sjett= |
| 8 | E. | XIX. | einn= | | i. |
| 9 | F. | VIII. | a | | |
| 10 | G. | | mest | | |
| 11 | A. | XVI. | Bar- | Barnabas Postuli | |
| 12 | B. | V. | na- | | |
| 13 | C. | | bi- | | |
| 14 | D. | XIII. | as, | | |
| 15 | E. | II. | Vs- | Vitus-Messa | |

hefir daga XXX, túngl 29 nátta.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 16 | F. | | tus | |
| 17 | G. | X. | Bót- | Bótólfs D. |
| 18 | A. | | ólfs | |
| 19 | B. | XVIII. | bed- | |
| 20 | C. | VII. | id | |
| 21 | D. | | gét- | |
| 22 | E. | XV. | ur, | 1000 Pislarv. Sólstødur |
| 23 | F. | IV. | barst | |
| 24 | G. | | Jó- | Jóns-M. Baptistæ |
| 25 | A. | XII. | HANN- | |
| 26 | B. | I. | es, | |
| 27 | C. | | deydd- | |
| 28 | D. | IX. | ist | |
| 29 | E. | | Pét- | Petri og Pauli daudad. |
| 30 | F. | XVII. | ur. | |

## JULIUS, Midsumars mánudur,

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 1 | G. | VI. | Gód | |
| 2 | A. | XIV. | Ma- | Maríu Vitjan |
| 3 | B. | III. | ri- | |
| 4 | C. | | a | |
| 5 | D. | XI. | frænd- | |
| 6 | E. | | son- | |
| 7 | F. | XIX. | u | |
| 8 | G. | VIII. | fann, | Seljumanna-M. Alþing |
| 9 | A. | | søg- | |
| 10 | B. | XVI. | ur | |
| 11 | C. | V. | líd- | |
| 12 | D. | | ur | |
| 13 | E. | XIII. | Mar- | Margret hálshöggvin |
| 14 | F. | II. | gret | |
| 15 | G. | | daud- | |
| 16 | A. | X. | ann, | |

hefir daga XXXI, túngl 30 nátta.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 17 | B. | | fær | |
| 18 | C. | XVIII. | GUD | |
| 19 | D. | VII. | sál | |
| 20 | E. | | Þor= | Þorláks=Messa |
| 21 | F. | XV. | láks | |
| 22 | G. | IV. | jafn= | |
| 23 | A. | | an | |
| 24 | B. | XII. | séd, | |
| 25 | C. | I. | JA= | Jacob Postuli hálshoggvinn |
| 26 | D. | | cobs | |
| 27 | E. | XI. | lik= | |
| 28 | F. | | a, | |
| 29 | G. | XVII. | O= | Olafs=M. T. s. |
| 30 | A. | VI. | lafs | |
| 31 | B. | | med. | |

## AUGUSTUS, Heyanna mánudur,

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 1 | S. | XIV. | Ce- | Péturs Fángelsi |
| 2 | D. | III. | pham | |
| 3 | E. | | batt | Olafs=M. seinni |
| 4 | F. | XI. | Au- | |
| 5 | G. | | gu- | |
| 6 | A. | XIX. | stus | |
| 7 | B. | VIII. | einn, | |
| 8 | C. | | eld | |
| 9 | D. | V. | leid | |
| 10 | E. | | Lau- | Laurentius steiktur á rist. |
| 11 | F. | XIII. | rus | |
| 12 | G. | II. | kirkj- | |
| 13 | A. | | u | |
| 14 | B. | X. | sveinn, | |
| 15 | C. | | Ma- | Maríu=Messa fyrri |
| 16 | D. | XVI. | ri- | |

heſir daga XXXI, túngl 29 nátta.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 17 | E. | XVIII. | a | |
| 18 | F. | VII. | haf= | |
| 19 | G. | | in, | |
| 20 | A. | XV. | hauſt | |
| 21 | B. | IV. | byrj= | |
| 22 | C. | | ar | Symphorianus |
| 23 | D. | XII. | bezt, | |
| 24 | E. | I. | BAR- | Bartholomeus Poſtuli |
| 25 | F. | | tho- | |
| 26 | G. | IX. | lo- | |
| 27 | A. | | me- | |
| 28 | B. | XVII. | us, | |
| 29 | C. | VI. | Jó= | Hofud Jóhannis aftekid |
| 30 | D. | | hann | |
| 31 | E. | XIV. | lézt. | |

## SEPTEMBER, Addrátta mánudur,

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 1 | F. | III. | Jann | |
| 2 | G. | | Se- | |
| 3 | A. | XI. | ptem- | |
| 4 | B. | | ber | |
| 5 | C. | XIX, | mjeg | |
| 6 | D. | VIII. | mæt | |
| 7 | E. | | hnoss, | |
| 8 | F. | XVI. | Ma- | Maríu fæding |
| 9 | G. | V. | ri- | |
| 10 | A. | | a | |
| 11 | B. | XIII. | fædd, | |
| 12 | C. | II. | haf- | |
| 13 | D. | | inn | |
| 14 | E. | X. | kross; | Krossins upphafning |
| 15 | F. | | dæg- | |

hefir daga XXX, túngl 30 nátta.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 16 | G. | XVIII. | ur- | |
| 17 | A. | VII. | Lam- | Lambertus |
| 18 | B. | | ber- | |
| 19 | C. | XV. | tus | |
| 20 | D. | IV. | lag- | |
| 21 | E. | | ar | Mattheus Gudspjalla M. |
| 22 | F. | XII. | JDFN | |
| 23 | G. | I. | vel, | Jafndægur. |
| 24 | A. | | leid- | |
| 25 | B. | IX. | ir | |
| 26 | C. | | sál | |
| 27 | D. | XVII. | í | |
| 28 | E. | VI. | höfn | |
| 29 | F. | | Mich- | Michaels-Messa |
| 30 | G. | XIV. | el. | |

## OCTOBER, Slátrunar mánudur,

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 1 | A. | III. | A | |
| 2 | B. | XI. | fjøll | |
| 3 | C. | | O- | |
| 4 | D. | XIX. | cto- | |
| 5 | E. | VIII. | ber | |
| 6 | F. | | feyk- | Fides-M. Eldadagur |
| 7 | G. | XVI. | ir | |
| 8 | A. | V. | snjó, | |
| 9 | B. | | fanst | Dionysius Biskup |
| 10 | C. | XIII. | ek- | |
| 11 | D. | II. | i | |
| 12 | E. | | til | |
| 13 | F. | X. | þess | |
| 14 | G. | | Ca- | |
| 15 | A. | XVIII. | lix- | |
| 16 | B. | VII. | to, | |

hefir daga XXXI, túngl 29 nátta.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 17 | C. | | gloggt | |
| 18 | D. | XV. | Lu- | Lucas-M. Gudspjallamanns |
| 19 | E. | IV. | cas | |
| 20 | F. | | kennd- | |
| 21 | G. | XII. | i | |
| 22 | A. | I. | Glld- | |
| 23 | B. | | spjoll- | |
| 24 | C. | IX. | in, | |
| 25 | D. | | gallt | |
| 26 | E. | XVII. | heitt- | |
| 27 | F. | VI. | a | |
| 28 | G. | | Sím- | Símon og Júdas Postular |
| 29 | A. | XIV. | on | |
| 30 | B. | III. | og | 16000 Píslarvottar |
| 31 | C. | | hinn. | |

## NOVEMBER, Ridtídar mánudur,

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 1 | D. | XI. | Dýrd= | Allraheilagra=Messa |
| 2 | E. | | líng= | Allra Sálna=Messa |
| 3 | F. | XIX. | a | |
| 4 | G. | VIII. | há= | |
| 5 | A. | | tíd | |
| 6 | B. | XVI. | hald | |
| 7 | C. | V. | þú | |
| 8 | D. | | vel, | |
| 9 | E. | XIII. | helg= | |
| 10 | F. | II. | an | Mart. Luth. fæding |
| 11 | G. | | Mar= | Marteinn |
| 12 | A. | X. | tein | |
| 13 | B. | | þar | |
| 14 | C. | XVIII. | med | |
| 15 | D. | VII. | tel, | |

hefir daga XXX, túngl 30 nátta.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 16 | E. | | kjæt= | |
| 17 | F. | XV. | ir | |
| 18 | G. | IV. | Páf= | |
| 19 | A. | | ans | |
| 20 | B. | XII. | KJARR | |
| 21 | C. | I. | Frú | Maríu offran |
| 22 | D. | | stand, | |
| 23 | E. | IX. | Cle= | Clemens Páfi |
| 24 | F. | | mens; | |
| 25 | G. | XVII. | Post= | Katrín mey |
| 26 | A. | VI. | ul= | |
| 27 | B. | | ann | |
| 28 | C. | XIV. | teikn= | |
| 29 | D. | III. | ar | |
| 30 | E. | XI. | And. | Andreas Postuli |

## DECEMBER, Skammdegis mánuður,

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 1 | F. | | Feng- | |
| 2 | G. | XIX. | u | |
| 3 | A. | VIII. | nád | |
| 4 | B. | | Bár- | Barbara |
| 5 | C. | XVI. | a, | |
| 6 | D. | V. | Ni- | Nicolaus |
| 7 | E. | | clas, | |
| 8 | F. | XIII. | Frú- | St. Mar. Getn. D. |
| 9 | G. | II. | nýt- | |
| 10 | A. | | ur | |
| 11 | B. | X. | sæl- | |
| 12 | C. | | u | |
| 13 | D. | XVIII. | Lu- | Lucia |
| 14 | E. | VII. | ci- | |
| 15 | F. | | a | |
| 16 | G. | XV. | trú, | |

hefir daga XXXI, túngl 29 nátta.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 17 | A. | IV. | við | |
| 18 | B. | | sól= | |
| 19 | C. | XII. | ar | |
| 20 | D. | I. | hvorf | Sólstoður |
| 21 | E. | | Tho- | Thómás=Messa |
| 22 | F. | IX. | mas | |
| 23 | G. | | frið | Þorláks=Messa |
| 24 | A. | XVII. | fann, | |
| 25 | B. | VI. | fædd= | Fæðingar dagur Kristí |
| 26 | C. | | i | St. Stephán |
| 27 | D. | XIV. | mey | St. Jóhannes |
| 28 | E. | III. | oss | Saklaus born |
| 29 | F. | | Guð | |
| 30 | G. | XI. | OG | |
| 31 | A. | XIX. | mann. | Sylvester Páfi |



# Fingra-Rímsins Partar eru tveir:

Sá fyrri höndlar um kirkju-árid og þess tídir, helgar og rúmhelgar; annar um búskapar-árid og þess misseraskipti.

## Fyrri parturinn.

Vidvíkjandi kirkju-ársins tídum.

### Cap. I.

#### Um fíngra-rímsins gagnsemdir almennilega, svo mikid sem áhrærir kirkju-ársins tíma.

Sú hægasta og snillilegasta adferd, ad útreikna kirkju-ársins tíma, er hin gamla frókonst, sem lærdir menn hafa fordum kallad Dactylismum, edur Fíngra-Rím, hvört ed hefir í sér sérdeilis þrjár merkilegar gagnsemdir:

Sú fyrsta er að finna utanbókar þann dag í sérhvørjum mánuði á hvørjum túnglið spríngur út, eptir tilvísan Gyllinitalsins, sem er á pøktum grundvallað.

Onnur að geta reiknað á fíngrunum, fyrir utan nockurn styrk af bókrími eður almanaki, allar hræranligar ársins hátíðir, svo sem er: Níuvikna-Fasta, Páskar, Hvítasunna, og það fleira sem þar að hnígur.

Þriðja gagnsemdin er í því innifalin, að geta fundið, uppá hvørn dag mánaðar og viku sérhvør messa fellur árið um kríng.

---

## Cap. II.

## Fyrsta gagnsemd, að finna túnglkomur utanbókar.

### 1. Articuli.

Um Gyllinitalið, hvørnin það skal finnast,

Til að handtera þessa konst, að finna túnglkomur á fíngra-liðunum, sér og øðrum til nytsemdar, hlýtur það nauðsynlega að vera undirlagið, að maður viti hvor að sé vetur túnglaldar. Þarum þarf einginn að gánga í graf-

gøtur, sem einusinni hefir látið sér þarum undirvísa. Túngløldin hefir í sér 19 ár; þegar ein er liðin, þá kemur önnur strax þar eptir, og svo hvør eptir aðra, svo lengi sem heimurinn stendur.

Eptir fjølda túnglaldar áranna hafa þeir gømlu útvalið vissar tølur frá 1 til 19, sem þeir hafa kallað Gyllinital, annaðhvørt vegna þeirrar gullvægu nytsemdar, sem það með sér færir, til að finna túnglkomur og ýmsa tíma ársins; eður ogsvo fyrir þá grein, að lærðir menn skrifa, að stjørnumeistararnir og hinir helztu í borginni Alexandría hafi sendt forðum til Rómverja eitt silfur-spjald með forgylltu Gyllinitali. Þessar Gyllinitølur, 19 tilsamans, eiga að merkja og sýna 19 túnglaldar ár, sem koma hvørt eptir annað, svo sem áður er sagt, því þeir á fyrri øldunum, sem voru forfarnir í stjørnulist, héldu, að túngl kviknaði að 19 árum liðnum í sama tímans púnkt og áður fyrir 19 árum. En þeir síðari stjørnuvitríngar hafa fundið, að túngl kveikist 1ri stundu og hér um 27 mín. fyrri (á degi eður nóttu) þegar øldin er liðin, helduren þá hún

byrjadist. Mætti einhvør ætla, ad þad væri ecki svo hægt ad vita, hvørt ad væri ár túnglaldar edur Gyllinital, á sérhvørju því ári, sem yfir hann kemur; en þad er alhægt fyrir hvørn einn, sem nockra gætni hefir á sökunum, og er einusinni búinn ad vita hvør vetur aldar yfir standi, því einn kemur eptir annan, þar til øldin er komin í kríng.

Til dæmis: 1737 er hid 9da túnglaldar ár, og þess vegna Gyllinitalid og svo 9. 1738 verdur þad 10da, og árinu þar eptir 1739 11ta; og svo fjølga túnglaldar árin altíd meir og meir, eptir því sem ártal Kristí fjølgar, þar til øldin er úti Ao. 1747. Byrjast þá ønnur aptur 1748, og svo framvegis, svolengi sem Gud hefir þolinmædi yfir þessum heimi. Þetta kann hvør einn taka í akt, sem fíngrarímid vill brúka sér til nytsemdar, og þarf hønum því aldrei ad slá feil hvør vetur túnglaldar sé á því og því ári. En í fall ad nockur kunni ad vera svo gleyminn, ad hann muni ecki hvør ad sé vetur túnglaldar, nær hann hugsar ecki eptir því um heilt edur hálft misseri, sem hønum hefir sagt verid; eda hann vill

kannske grenslast eptir, hvørt verda muni Gyllinitalid á eptirkomandi tímum, ad margra ára fresti, þá vil eg sýna hér þad medal, sem allir kunna ad brúka til ad finna Gyllinitalid, bædi á nærverandi og líka eptirkomandi tíma: er þad uppdregin hønd, med sínu tøluletri á fíngrunum, sem eptir fylgir.

## Utskýríng þess sem høndin med sér ber.

Hér sér þú, minn vin! fjórar fíngur þeirrar vinstri handar, med rótunum hvørs þeirra undir og úlflidsvødvunum þar upp frá, settar med tølum, sem standa á 19 stødum, adrar stærri undir, adrar minni fyrir ofan; teikna hvørutveggju ár, bædi yfirstandandi aldar og líka þeirra sem eptir koma; tølustafurinn 1, sem situr fremst á góm vísifíngursins, merkir þad fyrsta ár í hvørjum 20, 2 þar upp frá, á sama fíngri, annad, 3 þad þridja, og svo þýdir hvør talan eptir adra svo mørg ár um alla umlidna tíma, frá Ao. 1700, og eptirkomandi, allt til 2080, sem þær hafa fjøldan í sér, til þess 19 eru komnir, er standa á rót litlafíngurs.


1.
1720.
6.
1820.
11.
1920.
16.
2020.
2.
1740.
7.
1840.
12.
1940.
17.
2040.
3.
1760.
8.
1860.
13.
1960.
18.
2060.
4.
1780.
9.
1880.
14.
1980.
19.
2080
X
5.
1800.
10.
1900.
15.
2000.

Sídan er vikid aptur á góm vísifíngurs: þar standa 1720, á midlid 1740, á efsta lid 1760, á rótinni 1780, á vødvanum 1800. Þadan líta menn á góm lángafíngurs, hvar ed standa 1820, og svo lid af lid, fíngur eptir fíngur, þar til komid er á rót litla fíngurs; þar standa 19 yfir 2080: en í midjum lófanum X. Nú vil eg sýna, hvørnin þessar fjøgra fíngra tølur eiga ad brúkast til ad finna Gyllinitalid á hvørju ári, frá 1700 allt til 2080 og jafnvel lengur; kann þad audveldlega ad ske og þad í snøggvu bragdi, því svo mikid sem áhrærir þær smærri tølur, sem standa á hinum stærri, þá gjøri eg ekki annad, enn legg X, sem eru í lófanum, vid hvørja eina; summan, sem þaraf gjørist í hvort sinn, sýnir Gyllinitalid á hvørju ári; en verdi summan meiri en 19, þá skal kasta í burt 19; þad sem þá verdur eptir er túnglaldar árid.

Til dæmis: Eg vil vita hvør vetur túnglaldar hefir verid Ao. 1701. 1, sem stendur fremst á góm vísifíngurs, lagdur vid X í lófanum, gjørir 11, þess vegna var ellefti vetur túnglaldar Ao. 1701; sama er ad-

ferdin á hinum árunum, sem eptir koma, allt til 19. Jeg legg X við hvørja eina tølu, og ef summan verdur meiri enn 19, þá kasta eg 19 í burt, eins og ádur er sagt. Exemplum þar uppá: Jeg vil vita hvört verid hefir ár túnglaldar Ao. 1718. 18, sem standa á efsta lid litlafíngurs uppyfir 2060, og X í lófanum gjera 28; 19 kasta eg í burtu, og verda þá eptir 9, sem merkja ár túnglaldar 1718. Nú vil eg lengra fram eptir øldinni, og vil vita hvør ad sé vetur túnglaldar 1720, 1740, 1760 og svo framvegis, allt ad 2080, gjøri því ecki annad enn legg þá tolu, sem stendur einstøk yfir þeirri stærri tølu, saman vid X í lófanum, summan sýnir túnglaldarárid, eins og tilforna.

Til dæmis: Vilji menn vita hvør ad sé vetur túnglaldar 1720. 1, sem stendur uppyfir þeirri tølu, og X í lófanum gjøra 11, sem sýna túnglaldar árid 1720.

Annad dæmi: Einhvør kann ad spyrja, hvør vetur túnglaldar muni vera 1780. Uppyfir þessari tølu, á rót vísifíngurs, standa 4;

þeir lagdir vid X sýna 14da vetur túnglaldar Ao. 1780.

Þridja dæmi. Hvør mun verda vetur túnglaldar An. 2020; þá tølu sé eg á góm litlafíngurs, uppyfir henni standa 16, þeir lagdir vid X, gjøra 26, og nær eg kasta burtu 19, verda eptir 7, sem merkja ár túnglaldar 2020.

Nú er enn framar athugandi, ad þegar kemur ad þeim árum, sem falla á millum tuganna*), svo sem 1721, 1722, 1723 og ønnur þvílík, þá tel eg lidina frá 20, 40, 60, 80 o. s. frv. hvørn eptir annan, og nær eg kem á þann lidinn, á hvørjum ártalid endast, þá gæti eg ad þeirri litlu tølu sem stendur uppyfir, og legg X vid hana, og þad er túnglaldar veturinn á því ári; þetta er audskilid af dæmunum sem eptir koma.

1. Exemplum. Hvør mun hafa verid vetur í túngløld 1724? Eg tel frá 1720 fjóra lidi, og lendi á vødvanum uppundan vísifíngri, þar standa 5, 5 og X gjøra 15da vetur túnglaldar 1724.

*) Tug kalla eg hér 20, þó þad ord merki annars ecki utan 10.

2. Exemplum. Jeg vil vita hvør ad sé vetur túnglaldar 1737. Tel því frá 1720, eins og ádur, 17, og lendi á effsta lid litla-fíngurs, þar standa 18; þeir og X gjøra 28, og nær eg hefi kastad í burtu 19, verda eptir 9, sem er vetur túnglaldar 1737.

3. Exemplum. Hvør mun vera vetur túnglaldar Ao. 1786? Frá 1780, þeim næsta tug fyrir framan ártalid, tel eg 6, og lendi á vødvanum uppundan lángafíngri; þar standa 10; þeir lagdir vid X í lófanum, gjøra 20; kasta því í burtu 19, verdur eptir 1, sem merkir fyrsta vetur túnglaldar Ao. 1786.

4. Exemplum. Einhvør spyr eptir hvør verda muni vetur túnglaldar Ao. 1951. Sá næsti tugur fyrir framan 1951 á hendinni er 1940, sem stendur á midlid grædifíngurs. Þadan tel eg 11, og med því høndin hrøckur ecki til, byrja eg optur í upphafi hennar, og lendi med 11 á rót vísifíngurs: þar standa 4; þeir lagdir vid X, gjøra 14, og sýna þad, ad Ao. 1951 verdur 14di vetur túnglaldar.

Kalla eg nú ánægjanliga sýnt med reglum og eptirdæmum, hvørnin menn kunni af þessari

uppdregnu hønd ad vita hvør ad sé vetur túnglaldar á sérhvørju ári, allt til 2099.

Þegar þú, kæri vin! ert nú búinn ad gjøra þér þennan lærdóm svo kunnugan, ad þú getur fundid vidstødulaust vetur túnglaldar um sagdan tíma fyrir leidarvísir þeirrar uppdregnu handar, þá hlýtur þú smámsamam ad venja þig af hennar brjóstum og finna túnglaldar árin utanbókar, af þinni eigin hendi, nær þú réttir hana fram, og þínu eigin brjósti, og nema þetta komist í verk med sagdri adferd kalla eg Fíngra-rímid hafi øngva yfirburdi fram yfir almennileg bókarím; því þad er lítils verdt í, ydkun þessarar konstar, ad verda altíd ad hánga af bókinni, eda þurfa ad grípa til útvortis medala, íbland hvørra teljast má penninn og krítin, til ad útreikna tíma kirkjuársins, svo ad þeir sem ecki eru ferdugri enn svo, þá má þad réttiliga um þá segjast ad blindur sé bóklaus madur. Nú svo þú verdir ecki, mitt barn! í þeirra tølu, þá skaltu venja þig vid smámsaman ad finna túnglaldar árin í huga þínum, einasta med þad slag, ad þú horfir á þína framrétta vinstri

hønd, og látir fíngurnar og fíngralidina, med rótunum og vødvunum, minna þig á allt þetta sem híngad til hefir sagt verid. Og svo ad námid kunni ad falla þess léttara, þá hef eg ødruvís nidur-radad tølunum á fíngralidina enn Gaspar Schottus fordum gjørt hefir í sínu Organo Mathematico; hann brúkar þumal-fíngurinn, ásamt med hinum fjórum, til ad finna túnglaldar árin, og verdur því nidur-radan tølunnar med svoddan móti lángtum torveldari ad muna, þessvegna, ad þumalfíng-urinn kann ecki ad léna nema þrjú tølusæti, hinir fjøgur, og 5 med vødvunum; en eg hefi svo nidursett, ad hvør fíngur skuli hafa í sér med rótunum og úlflids-vødvunum 5 tølusæti; bætast svo vid á hvørjum lid eptir annan 20 ár, svo hvør fíngur getur þá sýnt Gyllini-talid í 100 ár. 20, sem eru yfir hundrad og þúsund, standa altíd í þessum handar-upp-drætti á fremsta lid hvørs fíngurs, 40 á mid-lid, 60 á efsta lid, 80 á rótunum, en hundr-udin á vødvunum. Þetta er audveldt ad muna, þegar madur horfir á høndina framrétta og fíngralidina; en slái hønum feil, þarf hann

ecki annad ad gjøra enn telja af góm vísifíngurs, og uppeptir lidunum á hvørjum fíngri, 1, 2, 3 o. s. frv. Item 20, 40, 60 o. s. fr.

Til dæmis. Jeg vil vita hvør vetur túnglaldar verda muni Ao. 1860. 1800 standa á vødva uppundan vísifíngri (því øll hundrudin eru hér upp lengst); þar fyrir renni eg auga til lángafíngurs, þar eru 20 fram lengst, 40 á midlid, 60 á effsta lid, og þar uppyfir eru 8; þeir med X gjøra 18da ár túnglaldar Ao. 1860.

Munir þú ecki minni tøluna, sem stendur yfir þeirri sem er stærri, þá tel frá upphafi vísifíngurs, og verda þá 8 á effsta lid lángafíngurs. Svo vantar þá ecki neitt annad enn ydkunina til þess, ad þú getir strax uppá tíman vitad hvør ad sé vetur túnglaldar á hvørju ári.

Fleiri atferdir kunna ad brúkast enn þessi til ad finna Gyllinital árlega, en eg held þad ecki neitt betra ad sýna þær hér, því þar med yrdi skrifid bædi oflángt, og líka kynni svoddan ad gjøra trafala þeim sem læra vildi, ef hann tæki sér fyrir ad brjóta heilan í marg-

slags reglum, yrdi svo kannske ecki ferdugur í neinni þegar á þyrfti ad halda. Þess verd eg þó ad geta, ef einhvor vill gánga lengra fram eptir øldunum til ad finna Gyllinital, enn hondin tilvísar, þá kann honum þad vel ad luckást eptir hennar anleidíngu; því vilji hann telja árin á milli tuganna, þá merkir hvor fyrsti lidur sem eptir kemur hvørt fyrsta ár frá næst fyrirfarandi lid, hvør annar annad ár, hvor þridji þridja, o. s. frv. En þá talid er tugum saman, þá merkir fyrsti lidurinn 20, annar 40, þridji 60, fjórdi 80, fimti 100; og hvør tíundi lidur, ef talid er yfirum þvera hondina, merkir þúsund.

Til dæmis. Jeg vil vita hvørt ár túnglaldar verda muni Ao. 2100. 2000 standa á vødva baugfíngurs, þadan tel eg 5 tolusæti og lendi á góm vísifíngurs, og med því þar er 1, þá bæti eg honum vid X, og segi, ad Ao. 2100 verdi 11ti vetur túnglaldar. Þadan tel eg 5 lidi, og lendi á góm lángafíngurs, þar standa 6, þeir lagdir vid X sýna 16da vetur túnglaldar Ao. 2200; sama adferd er um hin onnur. Vilji madur finna

Gyllinitalið Ao. 3000, þá skal hann telja 10 tölusæti frá 2000, ecki ofan eptir liðunum, heldur yfirum þvera höndina, og taka til á fremsta lið vísifingurs, því 2000 er í síðasta handarinnar tölusæti, yfirum þvert, svo lendir hann á þriðja tölusæti lángafingurs, þar standa 8, þeir lagðir við X gjöra 18: Gyllinitalið Ao. 3000, ef veröldin stæði svo lengi.

Nú svo að þetta, sem hér hefir síðast verið umtalað, kunni að verða þess skiljanlegra fyrir þeim sem les, og hann geti prófað sjálfs síns atburði, í því að finna Gyllinitalið á þeim tímum sem koma kunna eptir nockur hundruð ár, þá set eg hér eina aðra hönd, við hvörja hann má bera saman sína ydni hugarins í sögðu verki, og leiðrétta svo sín feil, ef hönum skjátlar.


1.
2100.
6.
2200.
11.
2300.
16.
2400.
2.
2120.
7.
2220.
12.
2320.
17.
2420.
3.
2140.
8.
2240.
13.
2340.
18.
2440.
4.
2160.
9.
2260.
14.
2360.
19.
2460
X
5.
2180.
10.
2280.
15.
2380.

## 2. Articuli.

### Um túngls-termín edur töluord Gyllinitalsins.

Hingadtil hefir verid kennt, hvørnin þeir skyldu finna vetur túnglaldar sem vilja hafa Fingra-rímid um hønd. Nú fylgir eptir ad leida fyrir sjónir medalid, fyrir hvørt ad nýtt túngl kann ad finnast í hvørjum mánudi. Þar til hafa þeir fordum daga brúkad 19 latínsk töluord, er merkt hafa 19 ára Gyllinitølur, svo hljódandi:

3 11 19 8 16
Ter-nus, U-den, Nod, O-cto, Sed,
5 13 2 10 18
Qvin-qve, Tred, Am-bo, De-cem, Doc,
7 15 4 12 1
Se-ptem, Qvind, Qva-ter, Dud, Jo-ta,
9 17 6 14
No-vem, Sept, V-i, Qvard.

Med þessum 19 töluordum hafa þeir viljad sýna sæti Gyllinitalsins í bókríminu, og sídan, eptir þad þeir fundu uppá Dactylismum, gefa til kynna hvar þad ætti ad standa á fingra-lidunum; en med því vér erum nú ad semja eitt íslendskt Fingra-rím, í stadinn fyrir

þad latínska, þá viljum vér brúka íslendsk tøluord, svo sem Gyllinital, til ad finna túngls útsprúngu á fíngrunum, med því þad er hægra fyrir fólk hér í landi ad nema þad íslendska. Tøluordin hljóda þannig:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 14 | 3 | 11 | 19 | 8 |
| Fjórt, | Þridj-i, | Ell-eft, | Nít, | Att-a, |
| 16 | 5 | 13 | 2 | 10 |
| Sext, | Fimt-i, | Þrett, | Ann-ar, | Tí-u, |
| 18 | 7 | 15 | 4 | 12 |
| Át, | Sjø-und, | Fimt, | Fjórd-i, | Tólf, |
| 1 | 9 | 17 | 6 | |
| Fyrst-i, | Ní-u, | Seyt, | Sjott-i. | |

Sýnir hér talan yfir atkvædunum, hvad sérhvørt hefir ad merkja; og hlýtur madur ad kunna þessi tøluord reiprennandi uppá sínar tíu fíngur, svo hann þurfi ecki neitt ad hugsa eptir ordunum þegar hann er ad færa sér þau í nyt, hann skal og vita, ad í þessari tølu-rød svarar eitt atkvædi hvørjum degi.

## 3. Articuli.

Um nidurradan Gyllinitalsins á fíngrunum.

Nú heyrir til ad sýna, hvørnin þetta túnglstermín, edur Gyllinital, skal á fíngra-lidunum

standa: menn þyrftu ecki ad brúka sagda adferd, ef þeir mindi altíd á hvørjum lidum fíngranna Gyllinitølurnar hefdu sitt sæti; eru því tøluordin hugfest og brúkud einasta til þess ad styrkja minnid, og eru svoleidis nidursett sem hér greinir, sitt atkvædi á hvørjum lid og hnúa:

Fjórt á efsta lid midfíngurs innanhandar, Þridj- á midlid, -i á fremsta lid, Ell- á toppinum, -est á fremsta hnúa utanhandar, Nít á midhnúa, Att- á efsta hnúa, -a á efsta lid baugfíngurs, Sext á midlid, Fimt- á fremsta lid, -i á toppinum, Þrett á fremsta hnúa, Ann- á midhnúa, -ar á efsta hnúa, Tí- á efsta lid litlafíngurs, -u á midlid, At á fremsta lid, Sjø- á toppinum, -und á fremsta hnúa, Fimt á midhnúa, Fjórd- á efsta hnúa, -i á fremra lid þumalfíngurs, Tólf á efra lid. Fyrst- á efsta lid vísifíngurs, -i á midlid, Ní- á fremsta lid, -u á toppinum, Sext á fremsta hnúa, Sjøtt- á midhnúa, -i á efsta hnúa. Þetta allt kann nú ljóslegar ad sjást af þeirri uppdregnu hønd, sem hér næst fylgir.

## 4. Articuli.

Adferdin ad finna nýtt túngl í hvørjum mánudi, eptir ádur framsettum Gyllinitals-ordum.

Af medan þad latínska Fíngra-rím var almenniliga um hønd haft hér í landi, brúkudust styrd og næsta óþýdlig vers, ecki einasta til ad finna messudaga, heldur og einnin túnglkomur í sérhvørjum mánudi; upphaf þess fyrsta í Januario var þetta: Cisio, Janus, Epi etc.; í Februario: Bri, pur, Blasus etc., og svo í hvørjum mánudi þar eptir í vidlíkan máta. Í þessum versum voru viss ágrip edur atkvædi sett í hvørjum mánudi, svo hljódandi:

| Decemb. | Januarii | Februarii | Martii | Aprilis | Maji | Junii | Julii |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Syl, | le, | in, | ni, | qve, | num, | jo, | jau, |

| Aug. | Sept. | Oct. | Nov. | Dec. |
|---|---|---|---|---|
| Bart, | Mau, | Dinqvoqve, | li, | de. |

Þessi atkvædi voru merkt med stærri stöfum og áttu ad vísa til þess í hvørjum mánudi, ad þar skyldi byrja ad telja til túnglskveikíngar í þeim mánudi sem næst eptir kom; øll

þeſsi vers hlaut ſá að kunna reiprennandi fyrir utan, ſem fíngra-rímið vildi brúka.

Nú mátti það reiknaſt ofætlun fyrir leikmenn og bændur, að læra fyrir utan ſvoddan barbariſkar þulur, þar fyrir hef eg ſett í ſtaðinn fyrir þau latínſku vers 12 víſur íslendſkar, ſem eru ſkrifaðar hér að framan í rímſtocknum, þar ſérhvør víſa fylgir ſínum mánuði. Víſurnar hafa í ſér hvør ein ſvo mørg atkvæði ſem dagarnir eru í hvørjum mánuði, og byrjaſt á ſømu bókſtøfum og þeir, og í því eru þær ogſvo hagkvæmari enn rómverſku verſin. Þær geta um alla þá meſsudaga, til hvorra tímarnir eru helzt taldir hér í landi. Í þeim eru 12 atkvæði eður ágrip ſett í hvørjum mánuði með ſtærri ſtøfum, ſem kunna að brúkaſt, einsog þau latínſku fyrrum, að finna túnglkomur.

Til dæmis. Vilji eg finna túngls útſprúngu í Januario fyrſta vetur aldar, þá ſet eg fyrſt á effſta og miðlið víſifíngurs þeſsi tvø ſíðuſtu atkvæði í Decembri: OG MANN; ſíðan tek eg upphafið á Januarii víſu, og ſegi á fremſta lið víſifíngurs Ar, nýtt á topp-

inum, hóf á fremsta hnúa, Ja- á midhnúa, nus á effta hnúa. Sídan vík eg aptur innaná midfíngur og les svo vísuna til enda, lid eptir lid, fíngur eptir fíngur, þar til eg kemst med ordid GUD þángad sem Gyllinitalid stendur, á effta lid vísifíngurs, og er þad 29di lidur, sinn lidur fyrir hvørn dag mánadarins, því eg hóf vísuna á fremsta lid vísifíngurs, og med sama slag má brúka allar 12 vísur mánadanna, því atkvædid, á hvørju byrja skal ad telja til túnglsins í þeim mánudi sem eptir kemur, er adgreint frá hinum ødrum med stóru letri: í Januario er ordid GUD, í Februario HLAUT, og svo sitt í hvørjum sem eptir koma.

Nú hefir mér þótt þessi adferd lángsom og nockud leidinleg; þar fyrir er tilætlad, ad túnglkomurnar skuli finnast med þad slag, sem nú mun eg greina: Þegar eg fer ad leita ad nýu túngli í sérhvørjum mánudi eptir tøluordum Gyllinitalsins, svo nidursettum á lidamótunum sem fyrirskriftin og uppdregin hønd Art. 3, p. 77, 78 tilvísar, þá sleppi eg tveimur lidum á vísifíngri fyrir Januarium, þremur

á sama fíngri fyrir Februarium, tveimur fyrir Martium, þremur fyrir Aprilem, fjórum fyrir Majum, fimm fyrir Junium, sex fyrir Julium, sjø fyrir Augustum, átta fyrir Septembrem, níu fyrir Octobrem, tíu fyrir Novembrem og ellefu fyrir Decembrem, (þad eru alls sjø lidir vísifíngurs og fjórir lidir midfíngurs med toppinum, því hann reiknast altíd fyrir einn lid).

Nú svo ad þessi fyrirskrift um undanfellíngu lidanna á vísifíngri og lángafíngri kunni heldur ad festást í minni, þá er tilætlad ad þrjár eptirfylgjandi vísur skuli læraſt vel fyrir utan.

Jan og Mars tvo felldu frá;
  Í Feb og April þremur gleym;
Majus fjóra missa má
  Mun þá talid komaſt heim.
Fimm Junius fynjar senn;
  Sex Julius lausa gaf;
Sjø Augustus saknar enn,
  Svo telst vísifíngur af.
Átta Septemb. á burt fær;
  Octob. níu, minnst þess hér;

Tíu Novem. liði ljær;
Lét ellefu December.

Að þessum grundvelli lögðum, vil eg sýna með eptirdæmum, hvörnin nýtt túngl skal finnast í hvörjum mánuði.

1. eptirdæmi. Jeg vil vita nær túngl springur út í Januario fyrsta vetur aldar. Niðurraðan Gyllinitalsins á liðunum er eg búinn áður að sýna, Art. 3, p. 76-78, bæði með fyrirskriftinni og handarinnar uppmálan. Þar fyrir nær eg fer að hyggja að, á hvörjum lið Gyllinitalið 1 standi, þá finn eg að það situr á efsta lið vísifíngurs innan handar; þar fyrir sleppi eg tveimur þeim efstu liðum þess fíngurs fyrir Januarium, og tek til að telja 1 á fremsta lið, 2 á toppinum, 3 á fremsta hnúa, 4 á miðhn., 5 á efsta hn., 6 á efsta lið miðfíngurs innan handar, 7 á miðlið, 8 á fremsta lið, 9 á toppinum, 10 á fremsta hnúa, 11 á miðhn., 12 á efsta hnúa, 13 á efsta lið baugfíngurs, 14 á miðlið, 15 á fremsta lið, 16 á toppinum, 17 á fremsta hnúa, 18 á miðhn., 19 á efsta hn., 20 á efsta lið litla fíngurs, 21 á miðl., 22 á fremsta

lid, 23 á toppinum, 24 á fremsta hnúa, 25 á midhu., 26 á efsta hnúa litlafíngurs. Þadan vík eg yfir á fremra lid þumalfíngurs med 27, 28 á hans efra lid, og sídan 29 á efsta lid vísifíngurs innanhandar, hvar eg hafdi ádur fundid Gyllinitalid 1 standa. Þar fyrir kemur túngl 29da Jan. þegar Gyllinitalid er 1, edur fyrsta vetur aldar.

2. eptirdæmi. Jeg vil vita nær túngl kemur í Febr. annan vetur túnglaldar. Ef eg man ecki á hvörjum fíngurslid Gyllinitalid 2 stendur, þá les eg túngls-termínid edur Gyllinitals ordin uppá fíngurnar, og nær eg tel til þess á efsta lid midfíngurs, svo sem fyrri, formerki eg, ad þad stendur á midhnúa baugfíngurs utan handar, hvad eg læt mér ecki úr minni falla; sleppi svo þremur lidum þeim fyrstu á vísifíngri, med því Februarius á í hlut, og tek til ad telja 1 á toppinum, 2, 3, 4 á hnúunum. Sídan tel eg alla lidi á midfíngri, og svo framvegis, þar til eg kem á midhnúa baugfíngurs, þad eru alls 17 lidir; þar fyrir kemur túnglid 17 Febr., þegar Gyllinitalid er 2.

3. dæmi. Mér er hugur á að ransaka nær túngl hefir komið í Martio Ao. 1712, 3 vetur túnglaldar. Fer því að hyggja að, eptir því sem túngls-termínið vísar til á hvörjum fíngurslið Gyllinitalið 3 hafi sitt sæti; finn eg strax það er miðliður lángafíngurs; sleppi því tveimur liðum á vísifíngri, handa Martio, eru eptir 5, 6 og 7 á miðlið miðfíngurs; þar fyrir hefir túnglið sprúngið út eptir miðhlaupi himintúnglanna 7. Martii Ao. 1712; eins líka endrar nær, þegar Gyllinitalið er 3.

4. dæmi. Jeg vil hyggja að á hvörjum degi Aprilis túngl kveikist 4ða vetur aldar. Fer því að lesa túngls-termínið eður Gyllinitals atkvæðin á efsta lið miðfíngurs, sem vant er, og segi: Fjórt á efsta lið, Þriðj- á miðlið, i á fremsta lið, Ell- á toppinum, est á fremsta hnúa, Nít á miðhn., Att- á efsta hn. a á efsta lið baugfíngurs, Sext á miðlið, Fimt- á fr. lið, i á toppinum, Þrett á fr. hnúa, Ann- á miðhn., ar á efsta hn., Tí- á efsta lið litla fíngurs, u á miðlið, At á fr. lið, Sjø- á toppinum, und á fr. hnúa,

Fimt á midhn., Fjórd á efsta hn., sem merkir Gyllinitalid 4, hvört eg vildi finna, þad hefir þar sæti æ og jafnan; sleppi eg svo þremur lidum á vísifíngri, med því eg ásetti ad finna túngls útsprúngu daginn í Aprili, og tek til ad telja á topp vísifíngurs 1; 2, 3, 4 á hnúunum; 5, 6, 7, 8, 9, 10, 11 á midfíngurs lidamótum; 12, 13, 14, 15, 16, 17, 18 á baugfíngri utan og innan; 19, 20, 21, 22, 23, 24, 25 á øllum litlafíngrinum, og med því eg lendi nú med 25 á hans efsta hnúa á Gyllinitalinu 4, þá segi eg, ad túngl kveikist 25ta Aprilis, þegar Gyllinitalid er 4.

5. dæmi. Enn er mér til sinnis ad vita, uppá hvørn dag Maji mánadar túngls kveikíng fellur fimta vetur aldar. Jeg þarf ecki ad leida optar lesaranum fyrir sjónir, hvernin madur skal lesa túngls-termínid á fíngrunum, svo hann viti hvar Gyllinitalid stendur, því þad má nógsamlega sjást af túngl-hondinni, sem her fyrir framan er uppdregin, og líka skiljast af mínum fyrirsögnum. Gef mig því einasta til at telja lidina á fíngrunum, allt ad Gyllinitalinu, nær eg hefi ádur sleppt 4 á vísifíngri

fyrir Majum, og segi 1 á fremsta hnúa vísi-fíngurs o. s. frv., þar til eg kemst med 13 þángad sem Gyllinitalid 5 hefir sitt sæti, á fremsta lid baugfíngurs innan handar. Þar segi eg ad túngl kveikist 13. Maji, þegar Gyll-initalid er 5.

6. dæmi. Nær mun túngl hafa komid í Junio Ao. 1734, sjötta vetur túnglaldar? Eptir nidurradan Gyllinitalsins á fíngralidun-um finn eg, ad Gyllinitalid 6 situr á midhnúa vísifíngurs utanhandar, þar fyrir þegar eg sleppi 5 lidum á sama fíngri fyrir Junium, þá verdur túngls útsprúngan þann 1. Junii; því altíd, þegar búid er ad sleppa lidunum svo og svo mörgum, sem forskriftin segir, þá fer eg strax ad telja þess mánadar daga, á hverjum eg vil finna nýid.

7. dæmi. Enn framar ad sýna þad, ad mínar reglur til ad finna nýtt túngl í ein-hverjum mánudi séu á gódum grundvelli bygd-ar, þá vil eg hyggja ad á hverjum degi Julii mánadar þær segja túngl kveikist sjöunda vetur túnglaldar. Gyllinitalid 7 situr á topp litla-fíngurs; þar fyrir, þegar eg hefi sleppt 6 lidum

á vísifíngri, og fer ad telja 1 á hans efsta hnúa, þá kem eg med 19 þángad sem Gyllinitalid situr, segi því ad túngl kveikist 19da Julii, sjøunda vetur aldar.

8. dæmi. Fer eg enn lengra fram, og vil vita hvar túngl kveikist í Augusto 8da vetur aldar: Túngls-termínid sýnir mér, ad Gyllinitalid sitji á efsta hnúa midfíngurs; þar fyrir, þegar eg hefi sleppt øllum lidum vísifíngurs 7, og fer ad telja á efsta lid midfíngurs Augusti daga, þá kemst eg med 7 á hans efsta hnúa: segi þess vegna ad túngl kveikist 7da Augusti á 8da ári túnglaldar.

9. dæmi. Ao. 1737 er Gyllinitalid 9, þá vil eg vita hvar túnglid muni hafa komid í Septembri. Jeg sleppi øllum vísifíngurs lidum og efsta lid midfíngurs, og fer ad telja á hans midlid daga Septembris þannig: 1, 2, 3, 4, 5, 6, allt á efsta hnúa þess sama fíngurs; 7, 8, 9, 10, 11, 12, 13, allt til efsta hnúa baugfíngurs; 7 lidir litlafíngurs og 13 gjøra 20; 21 á fremra lid þumalfíngurs; 22 á efra lid; 23 á efsta lid vísifíngurs innanhandar; 24 á midlid; 25 á fremsta lid, sem er sæti

Gyllinitalsins 9. Þar fyrir segi eg að túngl muni hafa kviknað 25ta Septembris 1737.

10. dœmi. Nær mun túngl hafa kviknað í Octobri 1738, 10da vetur túnglaldar. Jeg formerki af sjefjunum, að Gyllinitalið 10 sitji á efsta lið litlafíngurs; þar fyrir, nær eg sleppi vísifíngri og tveimur liðum á miðfíngri, alls 9, þá teljast þaðan 13 liðir, að meðreiknuðum þeim sem Gyllinitalið situr á; segi því að túngl hafi kviknað 13da Octobris.

11. dœmi. Ef einhvör vill spyrja nær túngl muni kvikna í Novembri 11ta vetur túnglaldar, þá segi eg það verði þann fyrsta, með því Gyllinitalið 11 situr á tópp miðfíngurs, svo sem terminið útvísar. Nær eg sleppi 10 liðum að framan, þá byrja eg að telja Novembris daga á toppinum, verður þess vegna nýtt túngl 1sta Novembris ellefta vetur í öld.

12. dœmi. Að síðustu girnir mig að vita, nær túngl muni springa út í Decembri, 12ta vetur aldar. Jeg tek til, sem endrarnær, að lesa Gyllinitals orðin, og þá eg hefi lesið þau, fíngur eptir fíngur, finn eg um

sídir að 12 standa á efra lið þumalfíngurs; vík því aptur til að telja daga Decembris mánaðar, og eptir fyrirskriftinni sleppi eg fyrir hann 11 liðum; tek því til að telja 1sta Decembr. á fremsta hnúa miðfíngurs utanhandar, og svo lið af lið, fæ eg 17 á efsta hnúa litla fíngurs; vík því þaðan yfir á þumalfíngur, og segi 18. á hans fremra lið og 19 á þeim efra, hvar að áður varð fyrir mér Gyllinitalið 12; slútta svo þar af að túngl kveikist 19da Decembris 12ta vetur aldar.

Um auka-túnglin fellur þessi athugi.

Þriðja og sjøtta vetur aldar kvikna aukatúngl þann 1sta Octobris og Julii. Verður því að sleppa þá einum færra enn vant er, ef þau skulu finnast; en 11 og 19da vetur koma þau seinast í Novembri og Decembri; hin ønnur þrjú eru reglunni undirgefin.

---

## Cap. III.

### Um hlaupár og almennt ár.

Allir computistæ plaga að gefa reglu, með hvørri menn kunni að vita hvort eitt ár

sé hlaupár edur almennt ár; en þetta Fíngra-rím þarf hennar øngrar vid, því stefin sem eg hefi tilsett med samhendunum eru svo inn-réttud, ad þau sýna þad ljóslega, hvørt árid, sem verid er um ad sýsla, sé hlaupár eda almennt ár, og þad út alla sólarøld hina minni, eina eptir adra; en vilji nockur þar fyrir utan kunna ad greina hlaupár frá al-mennum árum, þá þarf hann ecki annad ad gjøra, enn kasta í burt af ártalinu tveimur þeim fyrstu tølum, sídan 20, og seinast 4, svo opt sem hann getur; verdi þá ecki neitt eptir, þá er þad hlaupár sem hann hefir fyrir sjón-um; en verdi eptir 1, 2 eda 3, þá er þad annadhvørt fyrsta, annad, eda þridja ár eptir hlaupár.

Til dæmis. Jeg vil vita, hvørt árid 1785 er hlaupár, eda almennt ár. Þar fyrir kasta eg fyrst í burt 17 (tveimur þeim fyrstu tolum), sídan fjórumsinnum 20 (edur 80) og seinast 4, verdur eptir 1, sem merkir fyrsta almennt ár eptir hlaupár.

Annad dæmi. Mig girnir ad vita, hvørt árid 1824 muni vera hlaupár eda

almennt ár. Kasta því fyrst í burtu 18, síðan 20, og síðast 4, verður ecki neitt eptir; og því er greint ár hlaupár. Sama er aðferðin alstaðar annarstaðar.

Fylgir sú undanteckt og athugi hér með, svo mikið sem áhrærir hundruðustu árin, að þrjú fylgjast altíð að almenn, en það fjórða hvørt er hlaupár, og er það hægt að vita, hvør hundruðustu árin séu almenn, og hvørt hlaupár, því ef ecki verður neitt eptir, þegar eg kasta 4 burt af tveimur þeim fyrstu tølum í ártalinu, þá er það hundraðasta ár hlaupár; en ef 1, 2 eða 3 verða eptir, þá eru það almenn ár.

Til dæmis. Jeg vil vita hvørt árið 1800 er hlaupár, eður almennt ár. Kasta því í burt frá tveimur þeim fyrstu tølum, fjórum sinnum 4 (það eru 16); optar get eg það ecki; verða eptir tveir, þess vegna er það almennt ár.

Aptur vil eg vita, hvørt árið 2000 er hlaupár eða almennt ár: gjøri sem fyrri, kasta í burt 4 fimmsinnum, og verður ecki neitt eptir; þar fyrir er það hlaupár.

# Cap. IV.

## Önnur gagnsemd Fingra-rímsins.

### 1. Articuli.

#### Um hræranlegar ársins hátíðir.

Önnur hin helzta gagnsemd Fingra-rímsins er, sem áður er sagt, að finna hræranlegar ársins hátíðir, Níuvikna-Føstu, Páska, Hvítasunnu, og það fleira, sem þar með fylgir.

Tvennslags grundvøll þurfa menn hér til að brúka, sem er fyrst: að vita hvør vetur sé túnglaldar; þar næst, Sunnudags-bókstafur á ári hvørju. Það fyrra er ljóst af því sem áður er kennt Cap. II, Art. 1, p. 60, sqv.

Um það síðara viljum vér hér nú undirvísun gjøra.

Það hefir lengi venja verið í Kristninni, meðan sá gamli still var í brúki, einkum síðan sú Níceniska ráðstefna var haldin, árum eptir Guðsburð 325, að finna Sunnudagsbókstaf af sólarøld hinni gømlu, sem til þeirrar nytsemdar var í fyrstunni uppfundin. Hún innibatt í sér 28 ár, því að hlaupársdag-

arnir, sem henni tilféllu, gjørdu sjøsinnum umbreytíng á Sunnudags-bókstafnum, svo þeir komust ecki í kríng, eda í sína gømlu og réttu rød aptur, fyrrenn ad lidnum 28 árum. En þegar nýi stíll fyrst byrjadist, Ao. 1582, vard sú atferd mikinpart løgd fyrir ódal hjá þeim Cathólisku, ad finna Sunnudags-bókstaf eptir sólarøld hinni gømlu, søkum þess ad þá var sú umbreytíng gjørd á tímatalinu, ad í endíngu hvorra hundrad ára, þrísvarsinnum samfleytt, skyldi hlaupárs deginum slept verda, en fjórda hvør øld skyldi altíd endast med hlaupári. Eptir þessari rádstøfun og undirbúníngi var stiptud ný sólarøld uppá 400 ár, á milli hvørrar og hinnar gømlu ad var stórmikill mismunur, svo nú er lángtum torveldara enn ádur ad finna Sunnudags-bókstaf, einkum á fíngrunum, því þar sem øll hans umbreytíng hafdi enda eptir gamla stíl ad lidnum hvørjum 28 árum, þar endast hún nú ecki fyrr enn 400 ár eru lidin; en ad skilja þær vandareglur sem þar til þéna, og ad komast í gegnum þá ørdugu vegi, sem rím-meistarar hafa í þeim søkum fyrirlagt, þad er ecki hvørjum ein-

um smælíngja gesid. Engu ad sídur má sá þó ecki þess án vera, sem vill brúka Fíngra-rímid, ad geta fundid Sunnudags-bókstafinn á hvorju ári, svo hann hafi hann altíd í ferſku minni, þegar á þarf ad halda, ecki sídur enn túnglaldar veturinn; því þetta eru þær tvær styttur sem kirkjuárs reikníngurinn, vidvíkjandi hræranlegum hátídum ársins, er uppá bygdur. Skal því fyrst þar um skrifa, hvörnin ad sólaröld sem Fíngra-rímínu er þénanleg, samt hennar ár, hvört fyrir sig, kunni fundin ad verdá.

## 2. Articuli.

### Undirvísun um sólaröld nýa stíls, þá stærri og minni.

Menn hljóta endilega ad brúka eina 28 áraöld í Fíngra-reikníngmum, til ad finna Sunnudags-bókstaf sérhvörs árs, eins og venja hefir verid í bók-rímínu alla daga, á medan gamli still var hafdur um hönd. En ad útvelja henni þénanleg takmörk, og koma henni haglegá fyrir, svo hún verdi erfidinu til léttirs, og hvör einn sem vill kunni hana sér ad hagnýta, þad útheimtir stóra grandskygni, sokum hlaupárs-

daganna, sem þrísvarsinnum eru undanfelldir á sérhverjum 400 ára tíma, og fyrir skömmu var áminnst. Kalla eg það nægja, ef að greind öld verður svo niðursett og skömtuð, að menn geti greiðuglega Sunnudags-bókstaf af henni fundið, því þetta er einasta gagnsemdin hvar fyrir hún hefir nockurn tíma stiftuð verið.

Nú svo að þetta kunni að komast í verk, þá verða menn fyrst að fá þecking þar um, hvörnin sólaröld hin stærri kann að finnast, og hvör að séu hennar takmörk.

## 3. Articuli.

*Regla, að finna sólaröld hina stærri.*

Skiptu ártali Kristí hvörju sem fyrirfellur með 400. Eða ef þér þykir það auðveldara, kastaðu fjórum svo opt burt sem þú getur frá tveimur þeim fyrstu tölum sem í því eru; það sem eptir verður eru ár tédrar aldar, en verði ecki neitt eptir, þá er það hennar síðasta ár.

1. Exemplum. Eg vil vita, hvað mörg ár muni verða liðin af sólaröld hinni stærri Ao. 1860; kasta því fjórumsinnum 4 í burt frá 1860, verða eptir 260, sem eru hennar ár.

Adferd þeßi kann framar ad verda ljós af því sem eptir kemur.

2. Exemplum. Hvad lángt mun vera lidid á 400 ára øldina Ao. 1600? Nær eg kasta burt frá þeßu Dato fjórumsinnum fjórum, eda 16, þá verdur ecki neitt eptir nema tvær siffrur, sem ecki gylda neitt einsamlar; þar fyrir hefir árid 1600 verid seinasta ár aldarinnar. Af þeßu er audskilid, hvør ad séu takmørk þeirrar 400 ára aldar sem nú stendur yfir: hún nær frá 1600 allt til 2000 inclusive, ef Gud vill svo vera láta.

Framar er merkjandi, ad þar þeßi hin mikla øld innibindur í sér 4ra hundrads flocka, þá byrjast hinn fyrsti Ao. 1601, annar 1701, þridji 1801, fjórdi 1901; sídan hinn fyrsti aptur Ao. 2001, annar 2101, og svo med sama flag framvegis, hvør eptir annan, ad lidnu sérhvørju Seculo, eptir því sem sjá má af þeirri uppdregnu hønd, sem kemur skømmu hér eptir.

## 4. Articuli.

Regla ad finna sólarøld hina minni af þeirri stærri.

Þegar þú villt nú finna ár sólaraldar hinnar

minni, þá skaltu fyrst kasta í burtu tveimur þeim fyrstu tölustöfum frá ártali Krísti, hyggja síðan að, hvør hundraðs flockur hinnar stærri aldar það muni vera sem þar yfirstendur, hvørt sá fyrsti, annar, þriðji, eður fjórði; sé það sá fyrsti, þá skalt þú leggja við sérhvørt ár hans, og það sem stendur yfir høfði hønum (það er, nærst undan hønum gengur), 1; við ár þess annars, og það sem yfir hans høfði stendur, 5; við ár þess þriðja, og það ár sem nærst undan hønum gengur, 9; við ár þess fjórða, og það sem yfir hans høfði stendur, 13; verði þá summan 28, eða minni, þá er það sólarøldin; en verði hún meiri, þá kasta í burt 28 svo opt sem þú gétur, eða, hvað hægra er (einkum þá árin eru orðin mørg), 30, og bæt 2 við afgánginn fyrir hvørja 30. Summan er sólarøldin.

Dæmi uppá þann fyrsta hundraðs flock, og árið nærst fyrirfarandi.

Hvør mun verið hafa vetur sólaraldar Ao. 1662? Svar: 7di; því þegar eg kasta burt 16 og legg 1 við afgánginn, þá verður hann 63, kasta síðan burt tvisvarsinnum 30;

en legg 4 við 3, sína 2 fyrir hvør 30, þá verða það 7.

2. dæmi. Jeg vil vita hvør verið mun hafa vetur sólaraldar Ao. 1600, sem gengur nærst undan þeim fyrsta hundraðs flock. Kasta því burtu 16 og set aptur 1, sem var vetur sólaraldar Ao. 1600.

Dæmi uppá þann annan hundraðs-flock, og það ár sem gengur nærst undan því.

Ef einhvør kann að spyrja hvør verið mun hafa vetur sólaraldar Ao. 1700, er stendur nærst fyrir framan annan hundraðs-flock þeirrar stærri sólaraldar, þá svarast: 5ta; því þegar eg kasta í burt 17 og legg 5 aptur, þá merkja þeir 5ta vetur aldar Ao. 1700.

2. dæmi. Hvør mun vera vetur sólar aldar 1737? Svar: 14ði; því þegar eg, að burtkostuðum tveimur þeim fyrstu tølum (17) legg 5 við 37, þá verða það 42, kasta síðan í burtu 30, en legg 2 aptur í staðinn við afgánginn 12, hvørjir að gjøra 14, og merkja 14ða vetur sólaraldar á þessu ári sem nú yfirstendur.

3. dæmi. Jeg vil vita, hvør sé vet-

ur sólaraldar Ao. 1791. Sleppi þess vegna 17, en legg 5 við resten, verða 96; kasta svo í burtu þrísvarsinnum 30, enn bæti 6 geymdum við 6, verða 12, er sýna vetur sólaraldar Ao. 1791.

Dæmi, viðvíkjandi þeim þriðja hundraðs flocki, og því ári sem stendur framan við höfuð hans.

Hvør mun vera vetur aldar Ao. 1800? Svar: 9di; því að burtköstuðum 18, legg eg 9 til aptur, sem merkja 9da ár sólaraldar Ao. 1800.

2. dæmi. Þú villt vita, hvør verða muni vetur sólaraldar Ao. 1845, kastar því í burtu 18 og leggur 9 við resten, verða 54; þar af dragast 30, verða eptir 24; þeir með 2 geymdum gjøra 26: vetur aldar Ao. 1845.

Dæmi uppá þann fjórða hundraðs flock, og það ár, sem gengur næst undan.

Ef einhvør vill vita hvør verða muni vetur sólaraldar Ao. 1900, þá má hann kasta í burt 19, og setja aptur 13, sem merkja vetur sólaraldar Ao. 1900.

2. dæmi. Hvør mun verða vetur aldar Ao. 1919? Svar: 4di; því þegar eg kasta í

burtu 19 og bæti 13 vid resten, þá verda þad 32; kasta sídan í burtu 28; blífa eptir 4: vetur sólaraldar Ao. 1919.

3. dæmi. Ef nockur gyrnist ad vita vetur sólaraldar Ao. 1999, þá kasti hann í burtu 19: tveimur þeim fyrstu tølum, og leggi 13 vid þad, sem eptir blífur, hvørjir ad gjøra 112; kasti sídan í burtu þrísvarsinnum 30, en geymi 6 í huganum, hvørja hann skal leggja vid restin, 22, verda 28: seinasti vetur sólaraldar Ao. 1999.

## 5. Articuli.

Ljósari undirvísun um rød hundrads-flockanna, og þær tølur sem leggjast vid hvørn einn.

Híngad til hefi eg gjørt undirvísun þar um, hvørnin madur skal finna vetur sérhvørrar 28 ára aldar, út alla þá stærri øld nýja stíls. En svo ad rød hundrads-flockanna og þeirra adgreiníng, ásamt tølurnar sem leggjast eiga vid hvørt ár sem þeir inni halda, kunni ljóslegar ad sjást enn eg hef ádur umgetid, þá sezt hér ein hønd, sem þad sýnir svo berlega, ad ecki verdur villt farid.


4.
1.
2.
3.
1.
5.
9.
13.
1600.
2000.
1700.
2100.
1800.
2200.
1900.
2300.
2400.
2800.
2500.
2900.
2600.
3000.
2700.
3100.

## Utskýríng handarinnar.

Tölurnar sem standa á nedstu lidum fíngranna, og þeirra rótum, merkja ártal Kristí. Þær sem standa á midlidunum: 1, 5, 9, 13, segja til þess, hvad mörgum árum þurfi ad bæta vid hvörn hundrads-flock rétt nidur undan þeim, svo ad sólar öldin sú minni, med sinni skerdíngu á alda-mótunum, kunni altíd ad sýna Sunnudags-bókstafinn riktuglega, út alla 400 ára öldina. Sá fyrsti hundrads-flockur þeirrar aldar byrjast strax eptir ártalid á vísifíngrinum, en endast med ártali lángafíngurs. Annar byrjast strax eptir ártal lángafíngurs, og endast med ártali græfifíngurs. Sá þridji byrjast strax eptir ártal græfifíngurs, og endast med ártali litlafíngurs, og þetta allt í sömu rödinni, og yfirum þvert. Sá fjórdi byrjast strax eptir ártalid á litlafíngrinum, og endast med ártali vísifíngurs í annari rödinni, og svo framvegis. 4, sem standa á fremsta lid vísifíngurs, merkja þad, ad ártalid nidurundan þeim endi altíd 400 ára öldina, og hennar fjórda hundrads-flock, med hlaupári. Hinar tölurnar: 1, 2, 3, á fremstu lidum lángafíngurs,

grædifíngurs og litlafíngurs, sýna það, að árin rétt niður undan þeim enda þann fyrsta, annan og þriðja hundraðs-flock Tetracosieteridis, með almennu ári.

## 6. Articuli.

### Að finna Sunnudags-bókstaf árlega af sólargöld þeirri minni.

Jeg má vel segja um Sunnudags-bókstafinn, eins og eg hefi áður sagt um túngloldina, að það er ecki einum heilvita manni vorkennandi að finna hann ár eptir ár, þegar hann veit einusinni hvør hann er; svo að sá, sem Fíngra-ríms konstina ydkar, kann traudlega að fara á mis við hann: viti hann hvør hann er á yfirstandandi ári, þá veit hann og einnin hvør hann muni verða á því ári sem eptir kemur; því aldrei þarf annað að gjøra, enn að taka þann sem nærstur er fyrir framan í stafrofinu.

Til Dæmis. Ao. 1737 er Sunnudags-bókstafurinn F, þar fyrir hlýtur hann að vera E á eptirkomandi ári, og D þar nærst, því E er nærst fyrir framan F, og D nærst

fyrir framan E. Pad séft gjør þegar stafrofið er lesið aptur á bak, á þennan hátt: G, F, E, D, C, B, A. Og nær hlaupárs-dagurinn innfellur, sem skedur fjórda hvørt ár, þá verda altíd tveir af þessu stafrofi brúkadir fyrir Sunnudags-bókstafi, sá sídar á árinu sem fyrr stendur í rødinni.

En viljir þú, minn vin! gøtva upp Sunnudags-bókstaf þess árs, sem fyrir løngu er umlidid, eda koma mun á seinni tímum, þá vil eg undirvísa þér, hvørnin þad kann ad ske í snøggvu bragdi med 28 ára øld sólarinnar, fyrir eitt víst medal. En ádur enn eg leidi þad sama í ljós, virdist mér naudsynlegt, ad setja bædi sólarøldina og Sunnudags-bókstafina þeim fyrir sjónir er þetta les, og þad á uppdregnum høndum, svo hann læri fyrst af þvílíkri afmálan ad fá nockurt skynbragd á því, hvør Sunnudags-bókstafur heyri til sérhvørjum vetri sólaraldar, hvørt verq kann hlaupár eda almennt ár. Høndurnar fylgja á eptir.



8.
G.
4.
E.
12.
B.
16.
D.
7.
A.
3.
F.
11.
C.
15.
E.
6.
B.
2.
G.
10.
D.
14.
F.
1.
B.A.
5.
D.C.
9.
F.E.
13.
A.G.

## Útskýring handanna.

Hér má nú sjá 28 ára old nýa stíls, teiknada á 7 fíngrum og rótum vinstri og hægri handar, item Sunnudags-bókstafina undir tölunum, sem heyra til sérhvörjum vetri: merkir 1, á rót vísifíngurs, fyrsta ár sólaraldar, og tveir bókstafir þar undir: B A, hlaupár, svo sem og allstadar annarstadar á fíngra-rótunum; 2. á effsta lid vísifíngurs, med bókstafnum G undir, merkja annad ár aldar; 3. á midlid sama fíngurs med F undir, merkja þridja ár aldar; 4. á fremsta lid vísifíngurs, med sínum bókstaf E undir, merkir hid fjórda ár; 5. á rót lángafíngurs, med 2 bókstöfum, merkja fimta ár sömu aldar, og svo hvad af hvörju upp eptir á hvörjum fíngri, bædi vinstri og hægri handar, svo sem tölurnar sýna, allt þar til 28 koma til ad standa á fremsta lid lángafíngurs hægri handar: tveir bókstafir standa altíd á rót hvörs fíngurs, sem vorta hlaupárin, en 1 á hverjum hinna, bodandi almenn ár.

Nú þótt þú kunnir vel ad hugfesta, hvörnin

sólaraldar árin standa á fíngrum beggja handanna, med því ad nidurradan þeirra og lidanna styrkir mjøg svo minnid í þeirri grein; samt mun þad veita bágt ad muna hvør Sunnudags-bókstafur fylgi sérhvørri tølu; einkum þess vegna, ad rød þeirra í sólar øldinni gengur ecki rétt áfram, eins og í upphafs støfunum, heldur aptur á bak. Þar fyrir hafa nockrir fundid uppá þad, til ad finna Sunnudags-bókstafinn, ad taka til á seinasta ári aldarinnar, og lesa svo bókstafina upp eptir, því þá verdur rødin rétt, eins og í stafrofinu; og þegar nú med svoddan móti kemur ad því ári, hvørs Sunnudags-bókstaf þú villt finna, þá verdur hann strax þar fyrir þér.

Til dæmis. Jeg vil vita, hvør Sunnudags-bókstafur sé 24dq ár sólaraldar: ef eg tek einum færra, þad er ad skilja 23, af 28, þá verda eptir 5; byrja þess vegna á þeim seinasta staf í øldinni, sem er E, á fremsta lid lángafíngurs hægri handar, og les svo bókstafina áfram eptir stafrofinu í 5 rúmum, en nefni 2 í hvørt fjórda sinn vegna hlaupársins,

á þennan hátt: C, D, E, F, G, A. Þar fyrir er A Sunnudags-bókstafurinn 24 ár aldar.

Aptur vil eg vita, hvor ad sé Sunnudags-bókstafurinn 21 ár sólaraldar: 20 teknir af 28 láta eptir 8, þar fyrir tel eg 8 bókstafa rúm áfram og gef 2 bókstafi fjórda hvörju, á þennan hátt: C, D, E, F G, A, B, C, DE, og lendi svo seinast med hlaupárs stafina DE í 8da rúmi, sem eru Sunnudags-bókstafir 21 ár aldar. En þad er adgætandi um hlaupársstafina, ad sá sem fyrri verdur fyrir í tølunni, þegar stadar er numid, hann hefir sætid seinna til ad teikna Sunnudaginn. Þessi adferd kann ad sønnu vel ad brúkast, en hún er mikid seinleg, og líka adgjætslusøm. Þad þókti og gott rád fordum daga, á medan gamli stíll var í blóma, ad finna Sunnudags-bókstafinn med þessu versi:

Grandia Frendet Eqvus Dum Cernit Belliger Arma.

En því fylgdi nockurt vandhæfi, því menn urdu ad lesa þad upp aptur og aptur, þar til þeir komu á þann lid sem heyrdi til sólar-

aldar árinu, og hafa stóra gætni á því, vegna hlaupáranna, ad 2 ordin væru altíd gefin vísifíngrinum, sín í hvørt sinn, því þad hefir ecki hlaupárin med neinum merkjum adgreind frá almennum árum.

Hvøruga þessa adferd get eg haldid rétt hagkvæma til ad finna Sunnudags-bókstafinn utanbókar, þó þær hafi brúkadar verid; þar fyrir vil eg nú sýna þad medal er eg ádur um gat, og mér þykir lángtum hentugra.

## 7. Articuli.

**Um stefin med samhendunum, er þéna til ad finna Sunnudags-bókstafinn.**

Þad medal sem eg drap á til forna, og mér þykir næsta þénanlegt til ad finna Sunnudagsbókstaf, eru 7 stef, med eins mørgum samhendum, hvør þú hlýtur ad læra fyrir utan, svo þú kunnir þaug uppá þína 10 fíngur, svo hljódandi sem eptirfylgir:

Bestar } Astir } Greidir Fridar Eingill.

Dáins } Cáins } Brædi Arfar Guldu.

Felur
Elur } Drottinn Christni Blída.

Andar
Grandid } Fordumst; Eymdir Dvína.

Canna
Bannid } Argir Glæpa Flockar.

Ecka
Drecka } Christi Børnin Allopt.

Gódir
Fródir } Erfa Dýrdar Crónu.

Þessi 7 stef eru med þeim hætti samsett, ad hvort eitt hefir í sér 5 ord, sem byrjast á 5 ólíkum bókstøfum: twø þau fyrstu merkja altíd hlaupárin, en hin þrjú almenn ár. Upphafsstafurinn hvørs ords fyrir sig vísar Sunnudags-bókstaf þess árs sem þad á skyldt vid; og med því twø samhendu ord eru í upphafi á hvørju stefi, þá sýna þau þá 2 stafi sem brúkast á hlaupárinu, hin þrjú þá, sem heyra til almennum árum millum hlaupáranna. Ordin í þessum 7 stefjum eru alls 35 og hánga svo saman hvørt vid annad, ad þau andsvari í réttri rød þeim 35 bókstøfum, sem 28 ára øldin, løgud eptir nýa stíl, hefir í sér.

Þess er naudsyn ad geta, ad samhend-urnar sem byrja hvørt stef hafa svip af Echo, edur dvergmáli: er þad af ásetníngi gjørt, svo þær med sinni slemmu minni þann sem les þær í huganum á þad, ad þær heyri til einu og hinu sama ári, og megi því ecki skiljast ad nema á aldamótunum.

## 8. Articuli.

### Um nidurradan stefjanna á fíngrum beggja handanna.

Þad var venja til forna, þegar versíd Grandia Frendet &c. var brúkad, og ønnur þvílík, til ad finna Sunnudags-bókstaf í gamla stíl, þá var þad lesid yfir um þvera høndina, og ætlad svo til, ad øll hlaupárin skyldu lenda á visifíngrinum. En mér hefir sýnzt ad láta nidurradan stefjanna vera med þad slag, ad þau verdi byrjud á rót vísifíngurs vinstri handar, og lesin svo fram eptir lidunum, fíng-ur eptir fíngur, svo ad þad sídasta, sem bodar 28 ár sólaraldar, lendir med því móti á fremsta lid lángafíngurs hægri handar; hvar af þad kemur, ad øll samhendu-ordin, sem votta

hlaupárin, verda á rótunum, en hin á lidunum, sem merkja almenn ár, á þennan hátt:

Bestar Astir á rót vísifíngurs vinstri handar, Greidir á efsta lid sama fíngurs, Fridar á midlid, Eingill á fremsta lid.

Dáins Cáins á rót lángafíngurs, Brædi á efsta lid, Arfar á midlid, Guldu á fremsta lid.

Felur Elur á rót baugfíngurs, Drottinn á efsta lid, Christni á midlid, Blída á fremsta lid.

Andar Grandid á rót litlafíngurs, Fordumst á efsta lid, Eymdir á midlid, Dvína á fremsta lid.

Canna Bannid á rót litlafíngurs hægri handar, Argir á efsta lid, Glæpa á midlid, Flockar á fremsta lid.

Ecka Drecka á rót Baugfíngurs sömu handar, Christi á efsta lid, Börnin á midlid, Allopt á fremsta lid.

Gódir Fródir á rót lángafíngurs, Erfa á efsta lid, Dýrdar á midlid, Crónu á fr. lid.

Vil eg nú, til enn betra leidarvísirs, láta höndurnar vera hér uppmáladar med stefjun-

um, svo hvør einn megi sjá hvørnin hann á ad lesa þau á lidunum, til ad finna Sunnu-dags-bókstafinn. Og er þess ad geta, med því ordin eru lesin frameptir á hendinni, þá skal altíd nefna þad ordid fyrr, sem undir stendur. Til dæmis: Bestar Astir, en ecki Astir Bestar.


4.
Eingill
3.
Fridar
2.
Greidir
1.
Astir
Bestar
8.
Guldu
7.
Arfar
6.
Brædi
5.
Cáins
Dáins
12.
Blída
11.
Christni
10.
Drottinn
9.
Elur
Felur
16.
Dvína.
15.
Eymdir
14.
unst;
Ford=
13.
Grandid
Andar


24.
Allopt
28.
Crónu
20.
Flockar
23.
Børnin
27.
Dýrdar
19.
Glæpa
22.
Christí
26.
Erfa
18.
Argir
17.
Vannid
Canna
21.
Drecka
Ecka
25.
Fródir
Gódir

## 9. Articuli.

Aðferðin að finna Sunnudags-bókstafinn á fingrunum með eptirdæmum.

1. dæmi. Jeg vil finna Sunnudags-bókstafinn Ao. 1739, sem er 16ði vetur aldar (því ef eg kasta í burt 17, eptir Cap. IV, Art. 4, 5, p. 97-104, óg legg 5 við 39, þá verða það 44; kasta síðan í burtu 28, verða eptir 16). Fer því að telja á fíngra-liðunum fram eptir: 1, 2, 3, 4 á vísifíngri; 5, 6, 7, 8 á lángafíngri: 9, 10, 11, 12 á baugfíngri; 13, 14, 15, 16 á litlafíngri. Verður svo seinasta talan 16, sem merkir 16ða vetur sólaraldar á fremsta lið litlafíngurs. Síðan fer eg að lesa stefin með sama móti, hvørt eptir annað, fram eptir liðunum, og segi: Bestar Astir á rót vísifíngurs, og svo Greiðir Friðar Eingill á liðunum þar fram frá. Dáins Eáins á rót lángafíngurs, Bræði Arfar Guldu á liðunum þar fyrir framan. Felur Elur á rót baugfíngurs, Drottinn Christni Blíða þar eptir. Andar Grandið á rót litlafíngurs, og svo hin orðin þar eptir, svo eg lendi með Dvína á fremsta lið litla-

fíngurs, hvar ed standa 16. Og med því D er fyrsti stafur í ordinu Dvína, þá er hann Sunnudags-bókstafur Ao. 1739, 16da vetur aldar.

Jeg vil vita, hvør Sunnudags-bókstafur muni vera Ao. 1742. Verdur þá vetur sólar aldar (eptir reglunni Cap. IV, Art. 4, p. 97-101) 19di; tek því til ad telja á rót vísifingurs, eins og til forna, lid af lid, fíngur eptir fíngur, þar til eg kemst med 19 á midlid litlafingurs hægri handar. Byrja sídan ad lesa stefin eins og ádur, og lendi med ordid Glæpa á greindum lid litlafingurs, sem sýnir, ad G sé Sunnudags-bókstafur Ao. 1742, med því ordid Glæpa byrjast á G.

3. dæmi. Hvør mun vera Sunnudags-bókstafur Ao. 1756, 5ta vetur aldar (eptir Art. 4, p. 99-100). Tek eg til ad lesa stefin, eptir venju, á rót vísifíngurs, og kemst med Dáins Cáins á rót lángafíngurs; hvørs vegna eg sé, ad þá muni verda hlaupár, sá fyrri bókstafurinn D brúkast allt til Matthías-Messu, en sá sídari C þar eptir árid út.

Jeg vil vita, hvør vera muni Sunnu-

dags-bókstafur Ao. 1820. Til ad vita vetur sólaraldar þad ár, kasta eg í burtu 18 (eptir Art. 4, p. 100) en bæti 9 vid 20, svo þad verda 29, kasta svo í burtu 28, verdur eptir 1, sem merkir fyrsta vetur aldar; þarf því ecki lengi ad leita eptir Sunnudags-bókstafnum, þvíad fyrstu samhendurnar í stefja flockunum Bestar Astir heyra til fyrsta vetri sólaraldar, og er því audslúttad ad þá verdur hlaupár, og B A Sunnudags-bókstafir.

5. dæmi. Ef einhvør spyr ad, hvør verda muni Sunnudags-bókstafur Ao. 1946, þá svara eg F; því ad burtkøstudum 19 legg eg 13 vid 46 (eptir Art. 4, p. 100-101) verda 59. Og nær eg sleppi 30 blífa eptir 29 og 2 geymdir, gjøra 31, kasta svo í burtu 28; verda eptir 3, sem merkja þridja vetur aldar. 3 standa á midlid vísifíngurs, og nær eg hef byrjad ad lesa stefin, kemst eg med Fridar á greindan lid; þar fyrir er þá F Sunnudags-bókstafur.

6. dæmi. Enn kann sá ad koma, sem vill skygnast eptir hvør Sunnudags-bókstafur mun hafa verid Ao. 1645 og hvør hann verda

muni Ao. 2045. Jeg kasta burt tveimur þeim fyrstu tølum á báðum þessum árum, og bæti 1 við 45 sem eptir verða, til samans 46; kasta því í burtu 30, leifarnar 16 og 2 geymdir gjøra 18 vetur sólaraldar. 18 standa altíð á efsta lið litlafíngurs í hægri hendi, þarfyrir les eg stefin allt þángað, lið eptir lið og fíngur eptir fíngur, og kemst með Ærgir á greindan lið: þarfyrir hefir Æ verið Sunnudags-bókstafur Ao. 1645, mun og einnin verða Ao. 2045 ef á þarf að halda.

Hef eg nú verið svo lángorður um þessa Methodum, að finna sólaroldina og Sunnudags-bókstafinn, fyrir þá grein, að það er hið torveldasta í ríminu, og líka þess vegna, að lesarinn skilji þess betur, hvørnin hann á að færa stefin með samhendunum sér í nyt, því það er víst, þegar einn hefir fest þau vel í minni, þá er þessi aðferð hin allra hægasta og fljótasta: maður kann í einum svip, nær vetur sólaraldar er fundinn, að hlaupa með stefin fram eptir fíngrunum, þar til hann kemur að sæti því sem vetri aldarinnar er tileinkað, því

þá sýnir strax fyrsti stafurinn í sérhvørju ordi stefsins, hvør ad sé Sunnudags-bókstafurinn.

En þad er vel merkjandi um alda-mótin, ad í útgaungu þess fyrsta, annars og þridja hundrad ára flocks í hinni miklu øld nýa stíls, þegar leifarnar, ad burtkøstudum tveimur þeim fyrstu tølum frá ártali Kristí, verda 100, 200 og 300, hvørjum árum þessar þrennar samhendur tilheyra: Ódáins Eáins, Felur Elur, Andar Grandid; þá skal sleppa hinu fyrra ordinu í hvørri fyrir sig, en bíhalda því seinna, svo sem sjá má ad gjørt er í tøblunni sem sett er bak í rímid. Orsøkin er þessi, ad greind ár verda altíd hér eptir almenn ár, og þurfa þess vegna ecki nema 1 Sunnudags-bókstaf, sem á ad vera E á því 100ta, E á því 200ta, og G á því 300ta. Af þessum hlaupáranna misbresti kemur þad og einnin, ad rød stefjanna hlýtur ad slitna vid útgaungu nefndra alda, en sú røskun varir þó ecki leng-ur enn þar til sólarøldin byrjast ad nýu, hvørrar upphafs stef altíd er þetta: Bestar Astir, Greidir, Fridar, Eingill. Ecki heldur gjørir sú skerdíng stefjanna neinn hneckir gagn-

semdinni sem þau með sér færa; því stafurinn, sá fyrsti í orðinu sem eptir kemur, sýnir altíð Sunnudags-bókstaf næstkomanda árs.

En verða má þó, að einhvør vilji hnidra þessum stefja stöckum, og segja, það sé lítið gagn að þeim, þar þeir fái ecki altíð að halda sinni røð, því þegar hún brjálist viti menn ecki hvørt stefið taka skuli.

Til dæmis. Fyrsta Seculum endast með þessu stefi: Andar Grandið Fordumst o. s. frv. Þar eptir plagar að koma þetta: Canna Bannið o. s. frv. En hér í upphafi næstu aldar kemur Cáins Bræði Arfar Gulldu, hvað ecki er vel møgulegt að muna utan bókar. Andsvar: Þessi mótsøgn gyldir ecki neitt, því sá leiðarvísir sem eg hefi gefið til að finna ár sólaraldar færir manninn, jafnvel blindandi, ecki síður enn þráður Ariadnes forðum Theseum, í gegnum hús vølundar til Sunnudags-bókstafsins. Stefið sem hann skal hitta verður fyrir hønum, hvørt hann ránkar við því eða ecki; því þegar eg legg 5 við 1701, þá verða það 6 að burtkøstuðum 17, og sýna 6ta vetur aldar, hvørjum æfin-

lega svarar ordid Brædi í stefinu: Dáins Cáins Brædi Arfar Gulduz og hvar sem þetta ord finnst í heilldri 400 ára øld nýa stíls, þá teiknar þad jafnan 6ta vetur sólaraldar: Sama er ad segja um røskun stefjanna annarstadar á aldamótunum.

## Cap. V.

### Undirvísun um Sunnudags-bókstaf, og sólarøld þeirra Katholísku, item úrkastsdagana, svo menn sjái þeirra adferd og undirbúníng til ad finna hræranlegar hátídir, ef nockur vildi heldur brúka þeirra Praxin.

### 1. Articuli.

Adur enn jeg skil vid þessa materíu, verd eg ad gefa til vitundar, hvørnin Jesúítinn Gaspar Schottus sýnir med uppdregnum høndum adferdina ad finna sólarøld hina minni, og Sunnudags-bókstaf nýa stíls á hvørju ári, svo lesarinn megi úrskurda med sjálfum sér, hvør vegurinn vera muni greidari, og má hann

gánga svo þar eptir hvørn sem hønum fellur betur í geð.

Þeir Katholíkski, í sínum kirkjuárs reikníngum, miða takmörk hinnar minni sólaraldar við ønnur ár Kristí enn eg í þessu fíngrarími, því þeir láta hennar 5 ár gánga undan þeirra fyrstu Tetracosieteridis Centuria; 9 undan annari; 13 undan þriðju; 17 undan þeirri fjórðu; svo að ár Kristí 1601 vill vera hið sjøtta, 1701 hið níunda, 1801 hið 14da, 1901 hið 18da ár sólaraldar; hvørs vegna altíð verður stór mismunur á milli þeirrar sólaraldar sem þeir brúka og minnar, í tilliti til ártals Kristí, svo sem sjá má af þeirri hønd sem hér er uppdregin.

## Utskýríng yfir høndina.

0 á fremsta lið vísifíngurs merkir hlaupár, en 1, 2, 3 þar yfirundan almenn ár á aldamótunum; 5, 9, 13, 17 á miðliðunum merkja sólaraldar árin í útgaungu 100 ára aldanna. Þær tølur sem þar eru fyrir neðan merkja ártal Kristí, bæði á efstu liðunum og líka rótunum. Þegar þú vilt nú vita, hvørt

ad sé ár sólaraldar á einhvørju hundradaska ári Kristí, þá lít rétt framundan ártálinu til tølunnar sem stendur á midlidunum, hún segir til hvør ad sé vetur sólaraldar; en ef þú rennir auga til einhvørs af þeim 99 árum sem eru á millum hvørra 100 ára, þá kasta 28 í burt af þeim, hvad opt sem þú getur; svo margir sem þá verda eptir, svo marga fíngur skaltu telja yfirum þvera høndina, hvad eptir annad, frá þeim fíngri sem ártalid á stendur.

Til dæmis. Þú vilt vita hvørt ad sé ár sólaraldar Ao. 1800. Þetta ártal stendur á rót baugfíngurs; ef þú lítur nú framundan því, þá finnur þú 13 á midlid baugfíngurs, og þad er ár sólaraldar Ao. 1800 eptir reikníngi þeirra Kathólisku.

2. dæmi. Viljir þú vita hvørt verid hefir ár sólaraldar Ao. 1693, þá líttu uppundan 1600, sem standa á rót vísifíngurs, þar sér þú á midlid sama fíngurs 5, kastadu sídan burt þrisvarsinnum 28 frá 93 verda eptir 9, taktu þess vegna til ad telja frá 5, 9 fíngur, 6, 7, 8, 9, 10, 11, 12, 13, 14; þessi

tala 14, sem er hin 9da frá 5, merkir ár sólaraldar Ao. 1693.

3. dæmi. Jeg vil vita, eptir Katholiskri Praxi, hvørt vera muni ár sólaraldar Ao. 1746; lít þess vegna framundan 1700, og sé 9 á midlid lángafíngurs, kasta sídan í burtu 28 frá 46, verda eptir 18, og svo marga fíngur tel eg frá lángafíngri, og segi: 10, 11, 12, 13, 14, 15, 16, 17, 18, 19, 20, 21, 22, 23, 24, 25, 26, 27, svo verdur þá talan 27 (18da frá 9), sem merkir ár sólaraldar Ao. 1746.

Þessi adferd ad finna sólarøld nýa stíls á þeim 99 árum sem eru á millum hundrads flockanna virdist mér bædi seinleg, leidigjørn, og líka mjøg adgæzluverd; er þó ecki enn þá búid, því nú er eptir ad finna Sunnudagsbókstaf sem heyrir til sérhvørju ári aldarinnar; leggur Schotte þann grundvøll þar til, ad madur verdi fyrst ad finna sólarøld og Sunnudags-bókstaf gamla stíls, og þá þad er sked, þá skuli telja svo marga stafi áfram í stafrofinu sem afgángs verda þegar búid er ad skipta úrkasts-døgunum med 7. En skyldi

madur vilja vita hvad margir þeir verda á sérhvørri eptirfylgjandi 100 ára øld, þá þarf þar til vissa reglu.

## 2. Articuli.

**Praxis ad finna sólarøld hina gømlu á fingrum vinstri handar, eptir því sem Gaspar Schottus fyrirskrifar.**

---

## Utskýring yfir høndina.

Høndin, sem hér er uppmálud, hefir ártal Kristí á þremur lidum þumalfíngursins, og fjórum rótum hinna fjøgra, svo sem sjá má. Tølurnar 9, 25, 13 utan vid þumalfíngurinn, og 1, 17, 5, 21 á efstu lidum vísifíngurs, baugfíngurs og litlafíngurs, merkja sólaraldar árin í útgaungu þeirra 100 ára sem skrifud eru hjá, og fyrir nedan hvørja þessa tølu; svo ef þú vilt finna vetur sólaraldar hinnar gomlu á einhvørju hundradasta ári, þá stendur þar strax talan hjá, einhvør af þessum sjø, 9, 25, 13, 1, 17, 5, 21, sem merkir ár sólaraldar, en komi fyrir eitthvørt ár af þeim 99, sem eru á millum hundradz-flockanna, þá skal


0.
700.
1400.
9.
1.
17.
5.
21.
100.
800.
1500.
25.
300.
1000.
1700.
400.
1100.
1800.
500.
1200.
1900.
600.
1300.
2000.
200.
900.
1600.
13.

kasta svo opt 28 frá þeim sem ske kann, það sem eptir verður skal leggja við töluna sem stendur hjá, eða fyrir ofan ártalið; verði þá ecki summan yfir 28, þá er það vetur sólaraldar; en verði hún meiri, þá skal kasta burt 28, það sem þá verður eptir er ár sólaraldar hinnar gömlu.

Til dæmis. Eg vil vita hvört vera muni ár sólaraldar hinnar gömlu Ao. 1800: Uppyfir 1800 á efsta lið lángafíngurs standa 17, og það verður ár sólaraldar Ao. 1800.

2. dæmi. Hvört mun verða ár sólaraldar Ao. 1986? á efsta lið baugfíngurs uppyfir 1900 standa 5, hvörja eg geymi, kasta síðan í burtu 28 frá 86 þrísvarsinnum, verða eptir 2, við hvörja eg bæti 5 geymdum, gjöra 7da vetur sólaraldar hinnar gömlu Ao. 1986.

## 3. Articuli.

Þegar árið er fundið, mega menn ogsvo finna Sunnudags-bókstafinn eptir sama stíl, það kann að ske með tveimur uppdregnum höndum á þennan hátt, sem eptirfylgir.

## Utskýring handanna.

A 10 fíngrum þessara tveggja handa eru skrifud 28 ár sólaraldar þeirrar gømlu, og Sunnudags-bókstafurinn fyrir nedan hvørt ár, þarf þess vegna ecki annad ad gjøra enn finna árid á høndunum, hvørju ad Sunnudags-bókstafurinn fylgir.

Nú vil eg ítreka þau fyrri dæmi, med hvørjum sýnd var adferdin ad finna sólarøld nýa stíls, eptir Katholískri vísu.

Adur er ljóst gjørt ad Ao. 1800 muni ár sólaraldar vera hid 13da, en eptir gamla stíl 17da: gæti því ad 17da ári sólaraldar á þeim uppdregnu høndum, og sé, ad undir 17 á baugfíngri hægri handar standa bókstafirnir AG. Nú med því úrkasts-dagarnir verda þá 12, tek eg 7 af, og skil eptir 5; tel sídan 5 bókstafi áfram í stafrofinu frá G, sem er sá seinni hlaupárs-stafur eptir gamla stíl Ao. 1800, og lendi med tøluna á E, og þad verdur Sunnudags-bókstafur Ao. 1800.

Ao. 1693 er ár sólaraldar nýa stíls fundid hid 14da, en eptir gamla stíl hefir þad

verid 22ad: því nær eg kasta prísvarsinnum 28 frá 93 verda eptir 9; þar vid lagdir 13, sem standa hjá 1600 á þumalfíngri uppdreg-innar handar, gjøra 22. Sunnudags-bókstafur-inn á lángafíngri vinstri handar, undir 22, er A; úrkasts-dagarnir 10; frá hvørjum eg tek 7, og verda eptir 3; tel því 3 bókstafi í staf-rofinu áfram frá A, og lendi á D, sem var Sunnudags-bókstafur nýa stíls Ao. 1693.

Med þridja dæmi er ogsvo ádur fundid ad Ao. 1746 muni ár sólaraldar vera 27da eptir gamla stíl. Eptir nýa stíl verdur þad 19da. Sunnudags-bókstafur á midlid vísi-fíngurs hægri handar F; úrkasts-dagarnir 11. Þar fyrir tel eg 4 bókstafi í Alphabeto frá E, og lendi á B; Sunnudags-bókstaf nýa stíls Ao. 1746.

## 4. Articuli.

### Um úrkasts-dagana.

Vantar enn ad læra hvørnin Dies exemptiles, edur úrkasts-dagarnir nýa stíls, skuli finnast eitt Seculum eptir annad, vilji madur vera fullnuma í því ad geta leidt í ljós Sunn

udags-bókstaf sérhvørs árs, eptir nýa stíl, med þeim hætti sem Jesúítarnir fyrirskrifa. Schotte sýnir þann veg ogsvo med einni uppdreginni hønd mikid hønduglega, af hvørri audveldt er ad nema þennan póst, ad vita hvad mørgum døgum burt egi ad kasta á hvørju Seculo, svo Litera Dominicalis verdi fundin.

## Utskýríng handarinnar.

Hvør ein stærri tala á øllum lidum fíngranna, med rótunum, merkja ártal Kristí; en þær smærri, sem undir standa, merkja úrkasts-dagana, og sýna hvad margir þeir séu á þessu og eptirkomandi Seculis; þarf svo þessi kennsla aungva upplýsíng framar, því þessi póstur er audskilinn.

Tam labor est ingens, Elementum prodere Solis,
Schottus ut annorum tempora sacra putet.

Svo mikid erfidi kostar þad Schottum ad finna Sunnudags-bókstaf nýa stíls, uppá þad hann geti útreiknad kirkjuársins helgar


1700.
1.
1800.
2.
1900.
3.
2000.
2100.
4.
2200.
5.
2300.
6.
2400.
2500.
7.
2600.
8.
2700.
9.
2800.
2900.
10.
3000.
11.
3100.
12.
3200.

tídir. Og hvad lángsaman og seinlegan veg þessi hálærdi madur lagt hefir til ad uppgötva Sunnudags-bókstafinn, þá er hinn þó lángtum lengri og ördugri, sem sá nafnfrægi Christophorus Clavius vill ad menn gánga skuli til ad ná sömu gagnsemd; kvedur svo ramt ad í þeirri sök, ad Schottus, sem er annars af sama Sócíeteti, veigrar sér ecki vid, Organ. Math. p. 395, ad kalla adferd Clavii í sögdu efni intricatissimam & difficillimam. Má nú lesarinn sjálfur dæma í huga sínum, þegar hann hefir yfirvegad sýnda Praxin þeirra Kathólisku, hvört hönum þykir hún ecki nockud torveldari, og útheimta stærri vareygd í verkinu, en sú sem hönum hefir verid hér ad framan fyrir sjónir sett í þessu fíngrarími. Jeg voga ad segja, þótt einn meistari úr Róm færi ad reyna kapp um þetta lærdóms stycki vid leikmann hér á landi, sem hefdi vel numid mína fyrirsögn, og skyldi hvörugur hafa til verksins annad enn sín eigin brjóst og naktar hendur, þá yrdi hann ecki kominn á midja leid þegar vor landi hefdi nád markinu og hlaupid fullkomnad; þó sæist misímunur Methodi enn

framar, ef þeir ættu hvør með sínu lagi að finna Páska, og aðrar þvílíkar tíðir, því þá vitskugrein hefir enginn af Jesúítum vogað sér til, svo eg viti, allt til þessa dags með fíngrareikníngi að tentera. En nú vil eg innan skams sýna þá aðferð, hvørnin hátíðirnar skulu á høndunum funðuar verða, þegar eg hefi nockuð áður skrifað um viku bókstafina og hátíða-termínið.

## Cap. VI.

### Um sjø vikudaga bókstafi.

Eitt það, sem gjørir stóra fyrirgreiðslu í því að finna hræranlegar hátíðir og Messur ársins á fíngrunum utan bókar, er, að vita gjørla, og festa í minni, hvørnin að vikudaga bókstafirnir skulu standa á fíngralidunum; því 7 þeir fyrstu í stafrofinu, nefnilega A B C D E F G hafa lángsamlega brúkaðir verið til að boða 7 daga hvørrar viku, eitt ár eptir annað; almennilega kallast þeir Sunnudags-bókstafir, því þeir skiftast um árlega til að merkja Sunnudaginn, sem er hinn ypparsti dagur

vikunnar, tileinkadur gudlegri þjónustugjørd; þess er og ad geta, ad vér høfum 7 adgreinanleg kennimerki á hvørjum vorum fíngri, þad eru þrjú lidamót innan handar, og 3 hnúar utan handar, tilsamans 6, og 7 med toppi hvørs fíngurs, sem á ad reiknast í þessu falli fyrir einn lid. Hvørjum þessara 7 lida hafa þeir fordum einn af ádurgreindum viku bókstøfum tileinkad, og þannin nidursett, ad A skyldi tilheyra fremstu hnúum fíngranna utan handar, B midhnúum, C efstu hnúum, D efstu lidum innan handar, E midlidum, F fremstu lidum og G toppunum, svo sem eptirfylgjandi vísa hljódar:

A B C skal hnúum hjá,
Hygg ad því enn frómi,
D E F set innan á,
Efst sé G á gómi.

Svo þegar madur á ad reikna tíma og daga til einhvørrar hátídar eda merkidags, og talid endast á einhvørjum þessara lida, teiknudum med bókstaf, þá veit hann strax hvør dagur vikunnar þad er, því altíd, er einhvør af þeim Sunnudags-bókstafur, og ef eg lendi ecki med

talid á sjálfum Sunnudags-bókstafnum, þá sé eg samt hvad marga lidi eg þarf ad telja áfram þar til eg kem ad honum.

Þetta vil eg nú gjør sýna med uppmálan þeirrar vinstri og hægri handar, samt bókstøfunum sem tilheyra hvørjum þeirra lid fyrir sig; verda menn í þessu verki ad brúka og svo minnsta fíngur hægri handar, þess vegna, ad hvørki kemst þad sídasta Gyllinitals ordid Sjøtti, sem gengur af 28 fíngra lidum vinstri handar, vel fyrir á høndinni, þegar eptir því skal reikna tímana, sjøtta vetur túnglaldar; og ecki heldur fá vikudaga bókstafirnir (á medal hvørra einn skal altíd vera Sunnudagsins kennimerki) þar vel rúm, svo skiljanlegt verdi, þegar telja skal til hátídanna, og reikna uppá hvørn vikudag sérhvør Messa fellur; item hvad margir Sunnudagar gjøra Intervallum hid meira og minna; er því vonlegt ad verkid fái fljótari og lidugri framgáng, ef minnsti fíngur hægri handar brúkast einnin, ásamt med hinum fjórum, í þeim póstum sem ádur er umgetid; eru hér fíngurnar uppdregnar, bædi innan og utan handar, svo efnid verdi ljósara, en eptirdæmin uppá gagnsemdina koma fram sídar.




G. G. G. G.



Uppmáladar hendur hér ad framan eru einasta til þess, ad sýna hvørnin vikudaga bók-stafirnir eiga ad standa á fíngrunum.

---

# Cap. VII.

## 1. Articuli.

### Fyrirsögn þar um, hvörnin túngls termínid skal standa á fíngra-lidunum til ad finna hátídirnar.

Adur hefir kennt verid Cap. II, Art. 3, p. 76-78 hvör sæti Gyllinitölurnar skuli hafa á fíngrunum, svo menn kunni af þeim ad vita nær túnglid springur út í sérhvörjum mánudi; en hér á ad ske ødruvísi nidurradan Aurei numeri enn þar vat rád fyrir gjört, því túngls termínid Fjórt skal nú standa á effsta lid vísifíngurs, og svo hvört Gyllinitals ordid eptir annad, lid eptir lid, fíngur eptir fíngur, bædi innan og utan handar, þar til þad seinasta, nefnilega Sjøtt-i, kemst á effsta lid og midlid litlafíngurs hægri handar, svo sem hér uppdregnar hendur sýna.

Lika sem Gyllinitals ordin hér standa á fíngrunum, svo áttu ogsvo ad lesa þau uppá lidina, þar til þú kemur ad Gyllinitali þessveturs túnglaldar, á hvørjum þú villt finna hátídirnar; sídan þarftu ecki ad gjøra annad enn byrja á efsta lid vísifíngurs ad telja 18, og svo fram eptir til Níuvikna-Føstu: 22 til Páskadags og 10 til Hvítasunnu, og þad allt á Gyllinitals lidinn; talan, sem fellur uppá hann, merkir hátídardaginn í mánudinum, ef Sunnudags-bókstafurinn heyrir til þeim sama lid; en ef ecki, þá hlýtur þú ad telja fram eptir lengra á lidunum, þar til þú kemur ad Sunnudags-bókstafnum; sú tala, sem þá er ordin, sýnir þér dag mánadarins uppá hvørn hátídin fellur, hvørt sem þad kann ad vera Níuvikna-Fasta í Januario eda Februario; Páskar í Martio eda Aprili; Hvítasunna í Majo eda Junio. Og er þess altíd ad gæta, ef talan verdur fyrir innan 31, þá verdur hátídin í þeim fyrra mánudi hér töldum; en ef hún gengur yfir 31, þá skal kasta þeim í burtu, þad sem þá verdur eptir segir til

uppá hvørn dag þess sídara mánadar hátídin fellur.

## 2. Articuli.

### Undirvísun ad finna hátídir ársins.

### I. Níuvikna Føstu.

Híngad til hefir þad allt greinilega verid framfært, ad minni meiníngu, sem þénar til undirbúníngs ad finna hræranlegar hátídir ársins, 1. hvørnin túnglaldar árid skal uppleitast, Cap. II, Art. 1, p. 60 sqv. 2. Sólarøld hin stærri nýa stíls, Cap. IV, Art. 3, pag. 96. 3. Sólarøld hin minni, af þeirri stærri, Cap. IV, Art. 4, pag. 97. 4. Sunnudags-bókstafur sérhvørs árs, Cap. IV, Art. 7, 8, 9, p. 111 sqv. 5. Hvørnin vikudaga bókstafirnir eiga ad standa á fíngrunum innan og utan handar, Cap. VI, pag. 139. 6. Gyllinitals ordin til ad finna hátídirnar, Cap. VII, Art. 1, pag. 145 sqv.

Nú fylgir nærst eptir, ad sýna þad helzta lærdómsstycki í øllu ríminu, vid hvørt sá hálærdi Gaspar Schottus hefir gefist upp í

sínu Organo Mathematico p. m. 412, og ecki treyst sér til ad gefa skiljanlegar reglur þar um, hvørnin Níuvikna Fasta og adrar hátídir skuli árlega á fíngrunum fundnar verda; en þad skal ske á þennan hátt: Jeg les Gyllinitals ordin á fíngralidunum, svo sem ádur er umgetid; byrja sídan á efsta lid vísifíngurs, og svo uppá topp, og ofan á hnúa hinumegin, eins líka á midfíngri, og svo hvørjum eptir annan, þar til þad ord kemur sem merkir túnglaldar veturinn; þar nem eg stadar, og legg í minni á hvørjum lidnum þad var, tel svo alla lidina frá upphafi; sú talan, sem þá fellur uppá Gyllinitalid, merkir dag Januarii eda Februarii, á hvorjum Níuvikna Fasta kemur, ef Sunnudags-bókstafur ársins (sem altíd situr á einhvørjum lid sérhvørs fíngurs) heyrir til þeim sama lid; en sé þad ecki, þá hlýtur þú ad telja lidina fleiri, innan eda utan á fíngrunum, þar til þú kemur á Sunnudags-bókstafs lidinn. Talan sem þú hefir þá fengid, vottar dag Januarii, uppá hvørn fastan fellur, ef hún er fyrir innan 31, en sé hún yfir, þá kasta burt 31; tel sídan ad nýu

1, 2, 3, 4, o. s. frv. þar til þú kemur ad Sunnudags-bókstafnum; summa þeirrar tölu segir þér, á hvörjum degi Februarii Níuvikna Fasta komi. Þess er ad gæta, ad á hlaupári skal ecki tileinka þann lid Níuviknaföstu sem Gyllinitalid stendur á, þótt þar sé Sunnudags-bókstafur, heldur skaltu bæta 7 vid talid, eda telja á sama lid nærsta fíngurs; sú talan sem þá kemur upp vottar, uppá hvörn dag mánadar Níuviknafasta fellur, þegar svo ástenzt. Dæmin sýna þetta ljósara.

1. dæmi. Jeg vil vita, nær Níuviknafasta kemur Ao. 1739; Gyllinitalid er þá 11, Sunnudags-bókstafur verdur D. Set eg nú Gyllinitalid Fjórt á efsta lid vísifíngurs innanhandar, Þridj- á midlid, i á fremsta lid, Ell- á toppinum, sem er Gyllinital ársins 1739. Tel svo 18 á efsta lid vísifíngurs, 19 á midlid, 20 á fremsta lid, 21 á toppinum, og med því þar er ecki Sunnudags-bókstafurinn D, tel eg ofan eptir hnúunum utan handar, þar til eg kem ad D. á efsta lid innanhandar; er þá talan ordin 25. Og med því hún er

fyrir innan 31, þá segi eg ad Níuviknafasta komi þann 25 Januarii Ao. 1739.

Annad dæmi. Jeg vil vita nær Níuviknafasta kemur Ao. 1743. Gyllinitalid 15; Sunnudags-bókstafur F. Gjøri eins og ádur, byrja ad lesa Gyllinitalsordin Fjórt o. s. frv. á effsta lid visifingurs, og svo hvørt ordid eptir annad, á fíngrunum innan og utan handar, þar til eg lendi med Gyllinitalid Fimt (15) á midhnúa baugfíngurs utan handar.

Tek eg því til ad telja 18 á effsta lid vísifíngurs, og svo lid af lid, fíngur eptir fíngur, þar til eg kemst med 37 á midhnúa baugfíngurs; en med því þar er ecki Sunnudagsbókstafurinn F. tel eg 38 á effsta hnúa baugfíngurs, 39 á effsta lid litlafíngurs, 40 á midlid, 41 á fremsta lid litlafíngurs innan handar, hvar ed F. stendur; og med því talan hleypur yfir 31, þá kasta eg í burtu 31, verda eptir 10; segi því, ad Níuviknafasta komi 10 Februarii Ao. 1743.

Pridja dæmi. Í þridja sinn vil eg vita, nær Níuviknafasta muni koma Ao. 1772. Gyllinitalid 6; Sunnudags-bókstafur E. D.

Ao. 1772

Adferdin er altíd hin sama; jeg vil byrja med Fjórt, á efsta lid vísifíngurs, les svo Gyllinitals ordin lid af lid, fíngur eptir fíngur, þar til eg kemst med Sjött- (sem merkir 6ta vetur aldar) á efsta lid litlafíngurs hægri handar. Byrja svo ad telja 18 á efsta lid vísifíngurs; sídan lid af lid, fíngur eptir fíngur, þar til eg kemst med 46 á efsta lid litlafíngurs hægri handar; en med því þar-er ecki Sunnudags-bókstafurinn E. fer eg lengra upp eptir, og finn hann á midlid sama fíngurs, verdur þar talan 47. Eg kasta í burtu 31, verda eptir 16, sem merkja 16da Februarii, og þar kemur Níuviknafasta Ao. 1772.

Fjórda dæmi. Mér er fýsn ad vita nær Níuviknafasta muni koma 1828, sem er hlaupár, 5ta vetur aldar; Sunnudags-bókstafur verdur þá sá fyrri F. enn sídari E. Byrja því, eins og vant er, Fjórt á efsta lid vísifíngurs, og kemst med Gyllinitalid Fimt á fremsta lid lángafíngurs; hvørs vegna eg tel 18 á efsta lid vísifíngurs, 19 á midlid, 20 á fremsta lid, og svo hvad af hvørju, þar til eg lendi med 27 þar sem Gyllinitalid stendur;

en med því þetta er hlaupár, og Sunnudagsbókstafurinn er á sama lid og Gyllinitalid stendur, þá bæti eg 7 vid, eda tel áfram, þar til eg kem á fremsta lid næsta fíngurs; verdur þá talan alls 34; kasta því í burt 31, fyrir Januarium, verda eptir 3, sem merkja 3ja Februarii, uppá hvørn Níuviknafasta fellur Ao. 1828.

## II. Ad finna Páska.

Adferdin ad uppleita Páska kemur ad øllu leiti saman vid þá, sem í þessum Capit. Num. 1 var fyrirlögd til ad finna Níuvikna-Føstu, því einu fráskildu, ad þar sem byrjad er ad telja 18 á fyrsta lid vísifíngurs til Níuvikna-Føstu, þar skal nu byrja ad telja 22 á sama lid til Páska, og haldá svo áfram þar til Gyllinitalssætid verdur fyrir; summa þess dags vottar Páska-dag, ef þar er Sunnudags-bókstafur, hvørt sem er hlaupár eda almennt ár; en ef þar er ecki Sunnudags-bókstafur, þá skal telja lidina áfram lengra, þar til komid er þann lid á hvørjum Sunnudagsbókstafurinn situr. Verdi þá summan 31 eda

minni, þá merkir hún Páska-dag í Martio; en verdi hún meiri, þá skal sleppa 31; telja sídan 1, 2, 3, allt á lid Sunnudags-bókstaffins; summa þeirrar tølu merkir dag Páska í Aprili.

Eptirdæmi uppá Páska fundinn.

Fyrsta dæmi. Jeg vil vita, nær Páskar hafi komid Ao. 1723. Gyllinitalid 14; Sunnudags-bókstafur C. Fer því fyrst ad hyggja ad, á hvörjum lid Gyllinitalid Fjórt stendur, þad verdur strax fyrir mér á efsta lid vísifingurs, og ef þar hefdi verid Sunnudags-bókstafurinn C, þá hefdu þar komid Páskar, þad er ad skilja 22 Martii. En med því þad er ecki, þá segi eg: 22 á efsta lid vísifingurs, 23 á midlid, 24 á fremsta lid, 25 á toppinum, 26 á fremsta hnúa, 27 á midhnúa, 28 á efsta hnúa, og þar finn eg þess árs Sunnudags-bókstaf C. Þar fyrir hafa Páskar komid 28 Martii 1723, því summa tølunnar er fyrir innan 31.

Annad dæmi. Jeg vil vita, nær Páskar muni vera Ao. 1744, 16da vetur túnglaldar, sem er hlaupár; Sunnudags-bók-

stafir E. D.: sá fyrri til Mathías-Messu, en sá seinni þaðan í frá árið út. Jeg byrja Gyllinitals orðin Fjórt o. s. frv. á efsta lið vísifíngurs, eins og vant er, og lendi með Sext á miðlið miðfíngurs; tel því 22 þar sem Fjórt standa, 23 á miðlið vísifíngurs, og svo lið eptir lið, þar til eg kemst með 30 á miðlið miðfíngurs. Nú er þar ekki sá seinni Sunnudags-bókstafur D, þar fyrir tel eg 31 á fremsta lið miðfíngurs, og síðan 1, 2, 3, o. s. frv. þar til eg kemst með 5 á efsta lið baugfíngurs, þar finn eg Sunnudags-bókstafinn D, og þar koma Páskar dag 5 Aprilis Ao. 1744.

Þriðja dæmi. Jeg vil enn skygnast eptir, nær Páskar muni koma 1753. Gyllinitalið 6 eptir handar-reglunni Cap. II, Art. 1, pag. 60 sqv.; Sunnudags-bókstafur G. Cap. IV, Art. 9, pag. 118. Gyllinitals orðin byrja eg altíð í sama stað, á efsta lið vísifíngurs, og les þaug svo uppá fíngurnar, þar til eg lendi með Sjött- á efsta lið litla-fíngurs hægri handar, því þetta er sá síðasti vetur sem í þeim er; síðan tel eg 22 á efsta lið vísifíngurs, og kemst með 31 á fremsta lið

lángafíngurs; sleppi svo þeirri tölu, og fer að telja að nýu 1, 2, 3, o. s. frv. þar til eg kemst með 19 á efsta lið litlafíngurs hægri handar; ní er þar ecki Sunnudags-bókstafurinn G, þar fyrir tel eg 20 á miðlið, 21 á efsta lið, 22 á toppinum, hvar eg finn fyrir mér G. Þar fyrir koma Páskar þann 22 Aprilis Ao. 1753.

Fjórða dæmi. Einhvör kann að spyrja að, nær Páskar muni koma Ao. 1880, 19da vetur túnglaldar: Cap. II, Art. 1, pag. 60, sqv. Sunnudags-bókstafir D C: Cap. IV, Art. 9, pag. 118. Gyllinitalið stendur á miðhnúa vísifíngurs; tel því 22 á efsta lið, 23 á miðlið, 24 á fremsta lið, 25 á toppinum, 26 á fremsta hnúa, 27 á miðhnúa, en þar er ecki C; þar fyrir tel eg 28 á efsta hnúa, hvar C stendur; segir því konstin, að Páskar komi 28 Martii 1880.

## III. Að finna Hvítasunnu.

Hvítasunna verður fundin með líkum hætti sem Páskar og Níuvikna-Fasta, og er enginn munur nema sá, að eg byrja að telja 10 á efsta lið vísifíngurs, (því Hvítasunnu

kemur fyrst 10 Maji), tel svo fram eptir lid-unum, þar til eg finn Gyllinitalid og Sunnu-dags-bókstafinn, og á þeim lidnum kemur há-tídin, annadhvørt í Majo edur Junio, eptir því sem fjøldi tølunnar þad útheimtir.

Eptirdæmi, ad finna Hvítasunnu á Fingra-lidunum.

1. dæmi. Nær mun Hvítasunna koma Ao. 1750? Þá verdur 3ji vetur aldar: Cap. II, Art. 1, pag. 60. Sunnudags-bókstafur D: Cap. IV, Art. 9, p. 118. Gyllinitalid Þridj: stendur á midlid vísifíngurs, þar fyrir er ecki lángt ad telja. Jeg segi 10 á effsta lid, 11 á midlid, og med því þar er ecki Sunnudags-bókstafur, þá tel eg lengra fram og segi: 12 á fremsta lid, 13 á toppin-um, 14 á fremsta hnúa, 15 á midhnúa, 16 á effsta hnúa, og 17 á effsta lid midfíngurs, þar finn eg D, því þad er á øllum effstu lid-um fíngranna; kemur því Hvítasunna 19 Maji Ao. 1750.

2. dæmi. Jeg vil vita, nær Hvítasunna muni vera Ao. 1778; 12ta vetur túnglaldar: Cap. II, Art. 1. Sunnudags-bókstafur D:

Cap. IV, Art. 9. Gyllinitalid stendur á midlid litlafíngurs innan handar. Byrja því ad telja 10 á, efsta lid vísifíngurs, og kemst med 31 á efsta lid litlafíngurs; enn med því þar er ecki Sunnudags-bókstafurinn þá fer eg ad telja uppá ný: 1, 2, 3 o. s. frv. eins og ádur er kennt, allan litlafíngur af, þar til eg lendi med 7 á efsta lid litlafíngurs hægri handar, þar stendur D; þess vegna kemur þar Hvítasunna þann 7da Junii Ao. 1778.

Fleiri dæmi þarf ecki hér til ad leggja, því adferdin má vera deginum ljósari af þeim reglum og dæmum, sem ádur hafa framfærd verid í ýmsum stødum.

---

## Cap. VIII.

### Þridja gagnsemd Fíngra-Rímsins, um Messu-daga ársins.

#### 1. Articuli.

Þridja helzta gagnsemd Fíngra-Rímsins er, ad uppgøtva hvørjum degi mánadar og

viku sérhvør Messu-dagur, sem nockud um-vardar, tilheyrir; item, hvad margir Sunnu-dagar verda eptir Þrettánda til Níuvikna-Føstu, og frá Heilagrar Þrenníngar Hátíd til Adventu á hvørju ári, og þad med lángtum hægari og lempilegri adferd enn rím-meistararnir hafa híngad til nockurn tima brúkad, og ødrum fyrirskrifad.

En til þess fyrra hljóta menn ad brúka 12 vísur íslendskar, gjørdar eptir tølu mánada ársins; hafa þær svo mørg atkvædi í sér hvør ein, sem dagarnir eru í hvørjum mánudi, (eins og þær latínsku til forna), en eru þó lángtum hagkvæmari enn Cisio Janus, þvíad þær byrjast á sømu bókstøfum og mánudirnir; eru og einnin ad ordum og meiníngu skil-merkilegar. Vísurnar hlýtur sá sem ecki vill fara á mis tédrar gagnsemdar ad læra uppá sína 10 fíngur; og nær hann kann þær vel, þarf hann ecki heldur annad medal enn þær sjálfar, til ad vita á hvørjum bókstaf mán-udurinn byrjast. Þær hljóda sem eptir fylgir:

## JANUARIUS.

Ar nýtt hóf Janus; byrtist brátt
barn, sem tigna heidnir hátt,
med AnTONius Agnes géck,
en Páls Sjón af GUDi fíck.

## FEBRUARIUS.

Dýr María hreinsast hér,
hún gat Jesum líkan sér,
prýdir stól og plantar Vor
Pétur: Matthías HLAUT kjör.

## MARTIUS.

Deydi Jonas Hóla hyrdir,
heilög Christni nafn hans virdir.
Dægur hnísjösn BeNEdict ber,
bodan Meyar EPTir fer.

## APRILIS.

Gæfan óx Ambrosío.
Aprilis Leoni tign bjó,
Magnús vard Jarl, en Biskup Jón,
bar Marcus ORD Guds um frón.

## MAJUS.

Bádir kross, fékk bál Jón gist,
brá MAJUS vertíd og vist.

Hallvardur reyndi harda pín;
heitt med UrbaNO sumarid skín.

## JUNIUS.

Eykur Junius opt gras;
einna mest Barnabias.
Vitus Bótólfs bedid gétur,
barst JóHANNes, deyddist Pétur.

## JULIUS.

Gód Maria frændkonu fann,
føgur lidur Margret daudann,
fær GUD sál Porláks jafnan séd,
JAcobs líka, Olafs med.

## AUGUSTUS.

Cepham batt Augustus einn,
eld leid Laurus kirkju sveinn,
Maria hafin, haust byrjar bezt,
BARtholomeus, Jóhann lézt.

## SEPTEMBER.

Fann September mjøg mæt hnoss,
María fædd, hafinn kross;
dægur Lambertus lagar JØFRT vel,
leidir sál í høsn Michel.

### OCTOBER.

A fjøll October feykir snjó,
sannst ecki til þess Calixto,
gløggt Lucas kenndi GUdspjøllin,
galt þeirra Simon og hinn.

### NOVEMBER.

Dýrdlínga hátíd hald þú vel,
helgan Martein þar med tel,
kjætir Páfans KJNER Frú stand,
Clemenz; Postulann teiknar And.

### DECEMBER.

Fengu nád Bára, Niclas, Frú;
nýtur sælu Lucia trú,
vid sólar hvørf Thomas frid fann,
fæddi mey ósf Gud OG mann.

Þegar þú villt nú vita hvørjum degi mánadar og viku ein edur ønnur Messa, sem vísurnar umgeta, er tileinkud, þá skaltu lesa þá vísu, sem messuna í sér innibindur, uppá fíngurnar, med þad slag, ad þú byrjir hana á þeim sama fíngurs lid og hennar fyrsti bókstafur tilheyrir, eptir Cap. VI, p. 159, og látir svo sitt atkvædi falla uppá hvørn

lid, fyrst vísifíngursins innan og utan handar, síðan þess lengsta fíngurs med sama hætti, og svo hinna sem eptir fylgja, þar til þú kemur ad þeim messu degi er þú villt finna; þann sama lid skaltu hugfesta, hvort sem hann kann ad vera innan eda utan á fíngrunum; telja sídan lidina þadan sem fyrst var byrjad ad lesa vísuna, allt til þess lids er Messan féll uppá, því þad er hennar dagur, sídan, þegar madur vill vita uppá hvørn dag vikunnar ein Messa fellur, þá skal hann telja vikudagana frá Sunnudags-bókstafnum á lidum sama fíngurs, til Messu-dagsins, svo sem eptirfylgjandi dæmi sýna.

1. dæmi. Jeg vil vita, hvørjum degi Januarii Páls Messa tilheyrir. Byrja því, svo sem ádur er fyrirsagt, ad lesa þessa hans vísu: Ar nýtt hóf Janus o. s. frv. á fremsta húa vísifíngurs utan handar, því þar er sæti bókstafsins A, sem er fyrsti í Januario, og segi: Ar á fremsta húa, Nýtt á midhúa, hóf á efsta húa; vík sídan á efsta lid midfíngurs innan handar, og læt sitt atkvædi fylgja hvørjum lid, fíngur eptir fíngur, og

þegar eg er kominn uppá efsta hnúa litlafíngurs med ordid En, og mig þrýtur þar lidi vinstri handar ad fara lengra áfram, vík eg yfir á efsta lid litlafíngurs hægri handar, og þar kemur nidur atkvædid Pál, sem merkir Páls Messu; þessum lid gleymi eg ecki, en fer ad athuga hvör dagur Januarii þetta sé, med því móti, ad telja lidina frá því eg byrjadi ad lesa á fremsta hnúa vísifíngurs vinstri handar, verda þad 25 lidamót, sem merkja 25 Januarii daga; er því audslúttad, ad Páls Messa er altíd 25 Januarii. Nú sem eg vil gæta ad enn framar, uppá hvörn dag vikunnar greind Messa (eda hvör önnur) falli á einhvörju ári, þá er ecki annad ad gjöra, enn ad hyggja ad, á hvörjum fíngurs lid samaárs Sunnudags-bókstafur standi, sem er altíd hinn fyrsti í vikunni, og telja svo frá honum áfram allt ad lid messunnar.

Til dæmis. Ao. 1737 er Sunnudagsbókstafur F, sem situr á fremsta lid litlafíngurs innanhandar Cap. VI, p. 142, þadan tel eg viku-dagana, annadhvört med nafni, og segi: Mánudagur (á toppinum), Pridjudagur (á

fremsta hnúa), Midvikudagur (á midhnúa), Fimtudagur (á efsta hnúa), Føstudagur (á efsta lid innan handar); ellegar þad, sem enn er hægra, og tel einasta lidina til messunnar, og byrja á Sunnudeginum, á þennan hátt: 1. á fremsta lid, 2. á toppinum, 3. á fremsta hnúa, 4. á midhnúa, 5. á efsta hnúa, 6. á efsta lid innan handar; en sá sjøtti í vikudaga talinu, er altíd føstudagur, (sá fyrsti Sunnudagur, annar Mánudagur, 3ji Pridjudagur, 4di Midvikudagur, 5ti Fimtudagur, 6ti Føstudagur, 7di Laugardagur).

Svo fellur þá Páls-Messa uppá Føstudag Ao. 1737, því F er Sunnudags-bókstafur. Sama adferd heyrir til øllum Messum og merkidøgum árid um kríng, nær madur vill vita hvørjum degi mánadar þær séu tileinkadar, og uppá hvørn dag vikunnar þær falli; þessa adferd má og svo eins brúka þegar einhvør segir þad edur þad hafa sked, edur eiga ad gjørast, á vissum mánadar degi, og menn vilja vita hvør dagur vikunnar þad hafi verid, edur verda muni.

Til dæmis. Sá hrædilegi eldsbruni,

